vaxa, af því lífið var svo heilbrigt, að það kendi sér einskis meins. Og það er enginn vafi á því, að fáum skáldum, ef annars nokkurum, hefir tekist jafnvel að hafa stórkostleg áhrif á hugarfar og framkvæmdarlíf þjóðar sinnar og Björnson. Hann hefir áþreifanlega sýnt og sannað, að það er kredda ein, sem ekkert gildi hefir, að ekki sé unt að snúa fornsögum vorum, þótt þær séu sjálfar listaverk, upp í nútíðarlistaverk, sem haft geti stórkostlega og ómetanlega þýðing fyrir þjóðlíf þessara tíma.

En um miðbik æfinnar verður stórkostleg breyting í huga skáldsins. Fyrstu tuttugu árin af skáldaæfi sinni var hann allur á valdi hugsæisstefnunnar. Hann er fæddur hugsæingur eða hugsjónamaður. Sú stefna skáldskaparins virðist hafa verið algjörlega samkvæm eðli hans. Eftir hennar nótum var honum jafneðlilegt að syngja og lóunni og þrestinum eftir sínum. Þess vegna mun mörgum finnast, að það sem hann orti þenna fyrra hluta æfi sinnar, vera skáldskapur í æðra veldi en það, sem hann hefir ort tuttugu til þrjátíu árin síðustu, hversu ágætt sem margt af því hefir verið.

Eins og kunnugt er, varð bylting mikil í hugsunarstefnu Norðurálfunnar kring um 1870. Í skáldskap og listum var sú bylting fólgin í fráhvarfi frá þeirri hugsæisstefnu, sem áður hafði verið ráðandi. Skáldin og listamennirnir varpa sér út í annan straum, sem nú laugar fjöll og dali eins og flóð á vori og hrífur alt með sér. Það er hlutsæisstefnan (*realismus*). Áður höfðu menn lifað í heimi hugsjónanna, nú vildu menn lifa í heimi hlutanna. Áður höfðu menn hugsað um hlutina eins og þeir áttu að vera, en ekki eins og þeir í

raun og veru eru. Nú vilja menn að eins hugsa um hvern hlut eins og hann er, ekki síður hið ljóta og ógeðslega en hið fagra og dýrðlega. Skáldskapurinn á ekki að leiða inn í neitt ímyndað draumland, heldur að halda sér til þess, sem hver maður fær þreifað á. Hugur margra snerist eðlilega um leið frá trú og kristindómi og margar tilraunir voru gjörðar til að sýna fram á, að þetta væri ekki annað en hugsjónasmíði mannsandans, er engan veruleika hefði í sér fólginn.



BARNABÖRN ÞEIRRA BJÖRNSONS OG IBSENS.

Það má nærri geta, að þessi stefnubreyting hafi komið áköfum umbrotum á stað í huga annars eins ákafs tilfinningamanns og Björnstjerne Björnson er. Þessi umbrot voru svo mikil, að hann þagði nálega í tíu ár og lét lítið til sín heyra. Á þeim árum (1865 til 1875) ferðaðist hann mikið og drakk í sig þenna byltingahug, sem nú var orðinn einvaldur út um löndin. Þegar hann kemur aftur fram á sjónarsviðið, er hann algjörlega orðinn maður hinnar nýju stefnu. Árið 1874 gaf hann út leikrit, er hann nefnir „Ritstjórinn.“ Hann hverfur nú með öllu frá fornöldinni og snýr sér með öllum eldi anda síns að nútíðinni. Upp frá þessu verður hvert skáldverk frá hans hendi deilurit um eitthvert mikilvægt mannfélags málefni. Leikrit hans birtast nú hvert á fætur öðru: Gjaldþrot 1875; Konungurinn 1877, Leonarda 1879, Nýja kerfið 1879, Glófinn 1883, Um megn 1883, Landafræði og ást 1885.

Seinna hefir birzt eins konar áframhald af leikritinu Um megn, en þó myndar hvort um sig eina heild.

Ekki hefir Björnson gleymt söguskáldskapnum þessi árin heldur. Fyrst á þessu tímabili gaf hann út nokkurar stuttar skáldsögur, sem allar voru í sama anda og leikritin. Hétu þær Magnhildur (1877), Mansana kapteinn (1879), og Ryk (1882). En síðar komu út tvær langar sögur eftir hann, þar sem hann hefir með öllu móti reynt að koma hinum nýju hugmyndum þessa tímabils inn í huga þjóðar sinnar. Heitir önnur þeirra „Veifurnar uppi í bænum og á höfninni" (1884), en hin: „Á guðs vegum" (1889). Í báðum þessum sögum kemur skáldið fram sem ákafur málaflutningsmaður nýja tímans. Í fyrri sögunni heldur hann fram mjög einkennilega darvínsku framþróunarkenningunni. Hann sýnir þar fram á, hvernig ætt ein, sem eitt sinn hefir verið hraust og heilbrigð og gædd heilmiklu líkamlegu atgjörfi, en orðin er farin að heilsu og kröftum, gáfum og gæfu, af því illa hefir farið verið með alt þetta og sóðalega lifað, rís aftur við og fær nýjan dug bæði andlega og líkamlega með því að blandast annarri, sem vel hefir farið að ráði sínu og ekki syndgað gegn lögmáli lífsins. Þótt endurfæðing þessi sé ekki fullkomin þegar í stað, hefir skáldið þá trú, að hún verði það með tímanum. Og það sem heima á um eina ætt, á með jafn-miklum sanni heima um mannfélagið í heild sinni. Að lifa samkvæmt heilbrigðislögmálinu er því einnig allra meina bót. Þess vegna má draga veifurnar upp bæði í bænum og á höfninni fyrir dáðríkri og þróttmikilli framtíðarkynslóð.

Í seinni sögunni er það baráttan um mannshjartað-

milli trúar og vantrúar, sem skáldið hefir valið sér að yrkisefnir En fulltrúar kristindómsins eru þar látnir vera einstrengingslegir og gamaldags, gáfnatregir og þröngsýnir, sneiddir öllum skilningi á mönnum og málum samtíðar sinnar, svo ekki er við öðru að búast en menn snúi bakinu við þeim, kenningu þeirra og lífsskoðun. Skáldið mun hafa haft þá trú um þessar mundir, að kristindómurinn væri úrelt lífsskoðun, sem heimurinn væri í þann veginn að yfirgefa. Hann hélt við og við hálf-vísindalega fyrirlestra gegn ýmsum atriðum kristindómsins og þótti þá nokkuð geyst fara, tala oft um þá hluti, sem hann bar lítið skynbragð á eða ekkert, og lítið hugsa um að finna staðhæfingum sínum gild og góð rök til stuðnings. Tilfinningar hans voru svo æstar í bili, að hann kunni ekki af neinni stillingu að mæla, enda einkennir það alla framkomu hans í öllum málum bæði fyrr og síðar. Hann talar ekki um nokk-



FOSSINN SEM BJÖRNSON BAÐAR SIG Í

urt mál fyrr en það er orðið honum kappsmál og sér ekkert nema það, meðan á því stendur. En svo hjaðnar þessi ákafi oft niður á skömmum tíma og þá verður hann því ósjaldan vinveittur, sem hann hafði áður ofsótt með hnúum og hnefum. Á þann hátt er nú komið með kristindóminn. Á Frakklandi snerist skáldið aftur í þá áttina, svo hann er nú síðari árin fremur vinveittur en óvinveittur hinni kristnu lífsskoðun, þó nokkuð sé hann reikull í trúnni.

Fáir menn, ef annars nokkurir, eiga það betur skilið að vera kallaðir skáld þjóðar sinnar en Björnson. Það var smellið af því það var svo satt, sem fagurfræðingurinn *Brandes* eitt sinn sagði um hann: ,,Að nefna Björnson á nafn er hið sama og draga upp norska fánann''. Hann er persónugjörfing hins norska þjóðernis. Hann hefir vakið þjóð sína til meðvitundar um sjálfa sig betur en nokkur annar. Hugsun hans hefir meira og meira hneigst að stjórnmálum eftir því sem árin hafa þokast yfir hann. Aðaláherslana hefir hann í stjórnmálabaráttu sinni stöðugt lagt á efling og glæðing þjóðernismeðvitundarinnar: Að Norðmenn skoðuðu sjálfa sig og væru skoðaðir af öðrum sem óháð og sjálfstæð þjóð, sem bæru höfuðið hátt og frjálsmannlega og þyrftu fyrir engum að lúta. Hann hefir verið hræddur við Svía. Þeir eru stærri þjóð og eiga sína glæsilegu miðaldasögu; í þeirra garði hefir líka sænsk-norska konungsættin bólfestu. Þess vegna svo hætt við, að Svíunum sé eignað alt, en Norðmönnum gleymt út um heiminn. Fáninn þeirra þarf því að vera öldungis hreinn og í honum engir sænskir litir. Norðmenn, sem eru ein hin mesta siglingaþjóð heimsins, verða að hafa *norska* konsúla, eða verzlun-

arfulltrúa, hvarvetna út um löndin, svo það verði lýðum ljóst, að það séu norræn skip og norrænir menn, sem sigla höfin og flytja varning milli fjarlægustu hafna. Svona hugsar skáldið um þjóð sína í stóru og smáu. Mælska hans er mikilfengleg og stórbrotin. Menn standa á öndinni, þegar hann talar, enda hrýtur þá oftast margur heitur neisti frá afli.



## Theodór Roosevelt,

forseti Bandaríkjanna.

---

Þrjár þjóðir bera nú ægishjálm yfir öllum öðrum: Þjóðverjar, Englendingar og Bandaríkjamenn. Og þegar farið er að virða fyrir sér mennina, sem mestu ráða í heiminum, verða þeir óðara fyrir oss: keisarinn á Þýzkalandi, Jósef Chamberlain á Englandi og Theódór Roosevelt í Bandaríkjunum. Um hinn síðast nefnda viljum vér hér fara nokkurum orðum.

Mönnum ber saman um, að enginn einn maður í Bandaríkjunum hafi um þessar mundir neitt líkt því eins mikil áhrif á aðra menn og Roosevelt forseti. Þetta er ekki vegna þess, að hann skipar æðsta embættið í landinu. Ekki heldur vegna þess valds, er hann hefir með höndum, sem leiðtogi þess öfluga stjórnmálaflokks, er hann heyrir til. En það er vegna eftirdæmisins, er hann gefur þjóð sinni, — vegna þeirrar lyndiseinkunnar, er birtist í öllum orðum hans og framkvæmdum. Menn dást svo mjög að framkomu hans, að þeir eru ósjálfrátt farnir að spyrja sjálfa sig: Hvernig mundi hann breyta í mínum sporum?

Roosevelt er fæddur af góðum ættum. Hann er af hollenzku kyni, eins og nafn hans bendir á. Forfeður hans voru menn með sterkan vilja og stöðuga lund. Sagt, að þeir hafi mann fram af manni verið

gætnir menn og ráðvandir, og komið ár sinni vel fyrir borð í lífinu. Föðurarfur hans var nógu mikill til þess, að hann kæmi fótum fyrir sig. En framan af



THEODÓR ROOSEVELT, FORSETI BANDARÍKJANNA.

æfi hafði hann veikbygðan líkama við að stríða og lélega sjón. Gáfur hans voru að sönnu álitnar allveigamiklar, en ekki ljómandi. Hann fekk gott uppeldi;

hann varð ekki var við annað á heimilinu en glaðværð og heilbrigði í skoðunum og litnaðarháttum. Til menta var hann settur á þeim skólum, sem beztir eru álitnir og heillavænlegastir fyrir unga Ameríkumenn. Þegar hann hafði lokið undirbúningsnámi sínu, ferðaðist hann erlendis og og lagði svo fyrir sig lögfræði. Í öllu því, er á þenna hátt var ósjálfrátt lagt upp í hendur hans, virðist hann hafa heppinn verið um fram flesta aðra menn.

En nú fór hann að hugsa um sjálfan sig og taka ráð sitt í eigin hönd, Hið fyrsta áhugamál hans var heilsan, að styrkja hana með öllu móti. Hann æfði líkama sinn á allan hátt og sýndi hina mestu sjálfsafneitun; skilmingamaður varð hann ágætur og tók öðrum fram í alls konar leikfimi. Afkastamaður var hann hinn mesti á unga aldri. Hann var nærsýnn mjög; samt sem áður las hann og ritaði meir en flestir menn aðrir og varð ágæt skytta. Áður en hann yfirgaf háskólann, hafði hann getið sér ágætan orðstýr fyrir dugnað og óbilandi sjálfstraust.

Snemma hneigðist hugurinn þangað, er hann síðan hefir dvalið. Stjórnmál og bókmentir náðu þegar haldi á huga hans, áður en hann hafði lokið laganámi sínu. Fyrstu bókina sína ritaði hann tuttugu og þriggja ára gamall. Og á þrítugs aldri hafði hann ritað nógu mikið til að skipa heiðarlegan sess meðal sagnaritara amerískra og æfisöguhöfunda. Sanngjarn samanburður á þessum bókmentastörfum hans við ritstörf annarra manna í sömu grein virðist hafa komist að þeirri niðurstöðu, að á þessum árum hafi hann meira ritað en flestir aðrir og að gildi þess hafi að minsta kosti jafnmikið verið og þess, er eftir

aðra menn liggur, þótt þeir um miklu lengri tíma hefðu gefið sig við slíkum ritstörfum.

Þó voru bókmentirnar og rithöfundsstarfið ekki aðal-áhugamál hans. Tuttugu og fjögra ára gamall varð hann þingmaður í New York ríki. Fylti hann þegar flokk samveldismanna—repúblíka—, en var þó ákafur umbótamaður. Hann hafði gengið í flokk með uugum mönnum í borginni New York, sem voru brennandi áhugamenn um ýmsar umbætur, einkum í tollmálum. Einum þessara vina sinna ritaði hann, að hann væri samveldismaður fyrst og toll-leysingi þar næst. Hann var þegar heppinn á þingi. Hann gjörðist ötull flutningsmaður góðra framfaramála, átti oftast sigri að hrósa, og það ósjaldan gegn kappsfullum flokksbræðrum. Á flokksþingi ríkisins 1884 hafði hann tuttugu og fimm ára gamall þrek og fylgi til að andæfa *Blaine*, sem hann þá eigi treysti, og bera þar hærra hlut úr býtum. En þegar Blaine samt sem áður náði útnefning flokks síns, var ekki unt að fá Roosevelt til að fylgja hinum óháða flokki, er þá myndaðist. Og aldrei hefir nein tilhneiging til að yfirgefa flokkinn síðan gjört vart við sig hjá honum.

Á þessum fyrstu árum dvaldi hann tímum saman í vesturfylkjunum, þar sem lifað var hálfviltu hjarðmanna og veiðimanna lífi. Með nautasmölum (*cowboys*) varð hann frægur sem reiðmaður og nautasmali, með veiðimönnum sem ágæt skytta. Hvarvetna kom hann sér manna bezt, því hann gjörðist jafningi þeirra, er hann umgekst, en foringi þeirra og eftirlætisgoð um leið. Tuttugu og átta ára gamall náði hann útnefning samveldismanna til borgarstjóra í New York. Hann hefir gegnt opinberum embættum fyrir þjóð

sína síðan hann var um þrítugt. Hann hefir einkum lagt mikla áherzlu á umbætur í embættaskipun og eindregið fylgt þeirri stefnu, sem þar vill fara eftir verðleikum einum. Var hann sex ár í nefnd þeirri, sem sett var til að koma umbótum þessum í framkvæmd, og kom þar meira til leiðar en nokkur annar maður. Tvö ár var hann forsprakki lögreglustjórnarinnar í New York og færði þar svo margt í lag að furðu gegndi. Hann var aðstoðarskrifari sjóðliðsdeildarinnar árið áður en stríðið við Spánverja brauzt út, og alment er honum eignaður langstærsti skerfurinn af heiðrinum fyrir að þar var alt á takteinum, er á þurfti að halda. Þegar ófriðnum laust á, fekk hann eigi hamið sig lengur á skrifstofum stjórnarinnar, en þaut af stað, safnaði saman heilli herdeild sjálfboða riddaraliðs og gjörðist sjálfur foringi hennar. Um hugrekki hans á orustuvellinum hefir enginn verið svo djarfur að efast. En að hann sem foringi hafi gætt gætnisskyldunnar eins vel og ætlast hefði mátt til,—um það eru menn ekki jafn-sammála. Kappið ber oft forsjálnina ofurliði hjá ungum mönnum og framgjörnum. Af foringjum þeim, er þátt tóku í stríðinu, varð hann í rauninni einna frægastur. Og hann bætti við þá frægð með því að gangast fyrir mótmælum til stjórnarinnar gegn því, að hernum væri haldið á óheilnæmum stöðvum í brunabeltis loftslagi eftir að ófriði var lokið, til að verða þar sóttnæmum sjúkdómum og frægðarlausum dauða að bráð. Fyrir þessa frammistöðu sína alla var hann nú orðinn átrúnaðargoð þjóðarinnar. Hann var nú kosinn ríkisstjóri í New York. Yfirleitt þótti hann standa mætamætavel í þeirri vandasömu stöðu. Mörgum umbót-

um í stjórnarfarinu hratt hann af stað; einkum var hann sérlega heppinn í að skipa aldrei nema beztu mönnum í embætti og mikið sjálfstæði þótti hann þar sýna. Af sumum var honum þó fundið það til foráttu, að hann hratt ekki hinum ráðríka flokksforingja ríkisins frá völdum, en vafasamt hvort það hefði tekist, þótt reynt hefði verið.

Við forsetakosningarnar árið 1900 linti flokkur hans ekki látum við hann, að taka útnefning sem varaforseti. Hvað eftir annað sagði hann afdráttarlaust nei. En að síðustu lét hann þó eftir margendurteknum samróma kröfum flokksþingsins. Þegar McKinley lézt var hann á veiðum og varð að leita hann uppi í skógarauðn einni. Um leið og hann tók við embætti sínu, lýsti hann yfir því, að hann mundi fylgja fram stjórnarstefnu fyrirrennara síns. Hann hefir gjört það fram á þenna dag með dugnaði og samvizkusemi og fylgt fram meginskoðunum flokks síns dyggilega um leið og hann hefir þó ávalt verið leiðtoginn, sem bent hefir á nýjar brautir. Stjórn hans er þegar fræg orðin fyrir það, hve ant hann lætur sér um að fara eftir verðleikum einum, þegar um skipun í embætti er að ræða. En í tveimur atriðum hefir hann sem forseti stígið inn á nýjar brautir. Hann tók í taumana svo að dugði til að fá verkfallinu í kolanámunum friðsamlega leitt til lykta og barg með ráðkænsku sinni og myndugleika landinu frá geysi-hættu áður vetur gekk í garð. Löggjöf, sem hingað til hafði verið liggja látin í þagnargildi og halda átti auðmannavaldinu í skefjum, hefir hann eindregið látið beita. Með því hefir hann ótvíræðlega gefið í skyn, að það er sannfæring hans, að stjórnin eigi að taka

til greina hin nýju skilyrði, sem iðnaður og velmegun þjóðarinnar hefir myndað. Svertingjamálið í Suðurríkjunum hefir hann heldur ekki látið afskiftalaust. Hann hefir skipað svertingjum þar í embætti, þegar honum hafa virst þeir því vaxnir, og verið með öllu andvígur þeirri stefnu, er bola vill svertingjum frá öllum embættum og jafnvel út úr flokki samveldismanna. Með því er hægt að segja, að hann hafi hrundið því vandamáli út í enn meiri vanda, án þess að hafa bent á nokkura verulega úrlausn. Afskifti hans af löggjöf landsins eru álitin hófleg og í alla staði réttmæt.

Þótt Roosevelt forseti hafi lagt rækt við það þrent, er mest virðist heilla allan huga þeirra, er það stunda, stjórnmál, bókmentir og hernað, hefir hann gefið sig við ótal öðru og hvarvetna leyst ætlunarverk sitt jafnvel af hendi. Hann þykir ágætis heimilisfaðir og lætur sér einkar ant um uppeldi barna sinna. Hann er fyrirmynd á heimili sínu ekki síður en annars staðar. Sjálfur hefir hann sagt, að lífið hafi aldrei áður verið svo hugnæmt,—svo fult af heilbrigðum ákafa og nautn. Einmitt frá þessu sjónarmiði hefir honum tekizt að færa sér lífið betur í nyt en flestum Ameríkumönnum nú á dögum. Hann hefir haft hepnina með sér í öllu. Það væri ef til vill hægt að segja, að hann hafi verið of heppinn; því sá, sem stöðugt ber sigur úr býtum, hlýtur stundum að miðla málum og í þeirri málamiðlun að láta hæstu kröfurnar falla niður. En í þessum efnum hefir Roosevelt samt í flestu lifað samkvæmt kenningum sínum. Rit hans og ræður flytja stöðugt þá kenning, að seilast eftir hinu bezta sem unt er að öðlast, en aldrei að gefast upp. Það er fyrir honum eina lífið. Hann er um fram alt mað-

ur framkvæmdanna. Öll lífsspeki hans er lífsspeki framkvæmdanna. Það er eðli hans, að láta hugsanir verða að framkvæmd og gjöra það eins vel og unt er hér í þessum málamiðlunarheimi.

Um hann mætti að orði kveða líkt og forfeður vora: hann er rammur að afli. Hugsunin um hann er eins og svipa fyrir þá, sem deigir eru og veigalitlir og ekki vita, í hverja áttina þeir eiga að snúa sér. Skoðanir manna geta verið skiftar um það, hvort hann ávalt hafi breytt rétt, eins og þegar hann yfirgaf störf sín á stjórnarskrifstofum sjóliðsdeildarinnar í Washington, þar sem hann var á við marga og eiginlega ómissandi með öllu, og réðst út á orustuvöllinn sjálfan, þar sem hann mátti sín ekki meira en hver annar. En með þessu ávann hann sér hylli og kærleika þjóðar sinnar og varð átrúnaðargoð hennar um fram aðra menn. Æfintýra tilhneigingin er svo sterk í eðli hans. En á hinn bóginn sakna menn hinna skáldlegu, draumkendu, viðkvæmu eiginleika, sem einkent hafa ýmsa meðal hinna eldri mikilmenna Ameríku og lyft lífi þeirra upp í æðra veldi.

Ræður hans eru að mörgu leyti næsta eftirtektarverðar. Ósjaldan prédikar hann eins og bezti kennimaður; ávalt er því vel tekið og aldrei þykir hann leiðinlegur. Hann er ekki neitt sérlega mælskur maður, en það er tekið eftir hverju orði, sem hann segir, og hann talar ávalt eins og sá, er hefir einhvern ákveðinn boðskap að flytja tilheyrendum sínum. Og boðskapurinn er sú lífsspeki, sem hann er svo auðugur af og lætur líf sitt vera áþreifanlega fyrirmynd upp á. Hann er um það, að enginn maður megi liggja á liði sínu. Stærsti glæpurinn sé að vera ónytjungur.

Um að gjöra fyrir hvern mann að nota hvert augnablik, hvert tækifæri, seilast sem lengst, lesa sig sem hæst, láta verða eins mikinn mann úr sér og framast má verða. Og koma fram í hvívetna sem góður drengur,—góður drengur á heimili sínu, í mannfélaginu, gagnvart fósturjörðinni. En að forðast alla varmensku og gefa henni hvergi griðastað, hvorki í borgaralegum efnum né í opinberri stjórnmálasýslu þjóðarinnar. Eftir kenning hans og dæmi á lífið að vera eitt einasta átak með öllu því fylgi, sem hver einstaklingur á til. Með því móti má líf hvers manns hepnast og verða sigur.



# DAUÐINN.

SMÁSAGA

EFTIR GUNNSTEIN EYÓLFSSON.

---

Á hól einum stóð lítið og fátæklegt hús, og í húsinu bjó ekkja með ungum syni sínum. Fyrir austan húsið reis upp hár sandhryggur, sem nágrannarnir kölluðu fjall, en fjall var það nú samt ekki, að eins hæð eða háls, sem gnæfði upp í loftið nógu hátt til að útiloka alt víðsýni frá kofanum þar sem ekkjan og sonur hennar áttu heima.

En ef hálsinn hefði getað talað, þá gat hann forsvarað sig með því, að þó hann skygði á útsýnið frá húsinu, þá bætti hann það margfaldlega upp, ef íbúar hússins vildu taka á sig það ómak að ganga upp brattann, þangað sem hálsinn var hæstur, því þaðan sá langa leið yfir alla sveitina til austurs og norðurs.

Það var líka ómaksins vert, og meir en það, að ganga upp á hálsinn, þó ekki væri nema í júnímánuði þegar jörðin var í hásumarskrúði. Þá var fagurt að standa þar uppi og horfa austur yfir sléttlendið og bygðina, sem þá blasti við manni svo langt sem augað eygði. Það var fagurt að horfa yfir fagurgræna akra, sem láu ýmist í tígulmynduðum reitum, eða í jöfnum

lengjum, með engjum og skógarrunnum á milli. Og þá má geta þess, að það bar ekki hvað minst á bústöðum bændanna, sem bjuggu þarna á víð og dreif um sléttuna. Húsin stór og reisuleg, mörg af þeim líkari höfðingjahíbýlum en bænda. það var eins og velmegun og friður og ánægja ættu þar heima—hefðu sezt þar að fyrir fult og alt.

Og litli drengurinn, sem átti heima í kofanum vestan undir hálsinum, vissi vel, hve fagurt var um að lítast þar uppi. Hann taldi ekki eftir sér að ganga brattann þangað til upp á hálsinn var komið, og þar lék hann sér tímunum saman, eða lá í grasinu og virti fyrir sér sveitina sem lá austur undan. Hann hafði jafnvel tekið á sig það ómak að tína saman alla þá steina, sem hann gat fundið, og bera þá þangað, sem hálsinn var hœstur. Þar hlóð hann þeim saman og kallaði það húsið sitt, en lélegt hús var það nú samt, að eins tveir veggir og ekkert þak yfir.

Einn dag þegar hann var lengi búinn að leika sér þar uppi og orðinn lúinn, fór hann inn í húsið sitt og lagðist þar fyrir til að hvíla sig. Og á meðan hann lá þar -- hann vissi aldrei hvort hann var vakandi eða sofandi — þá varð honum litið austur yfir sléttuna og sá langt í burtu, yzt út við sléttubrúnina eitthvert lifandi ferlíki sem gnæfði við himininn og þokaðist áfram í áttina til hans.

Lýsingin, sem hann gat gefið af þessari ófreskju var svo óglögg, að lítið var á henni að græða. Stundum virtist honum hún veltast áfram eins og ormur, stundum var hún í líkingu við naut með hestsfætur og hundshaus, og stundum var hún skríðandi dýr með átta fótum og þremur hausum, en alt af voru augun

þau sömu, stór og ægileg, og eins og eldur brynni úr þeim, og honum fanst dýrið horfa á sig og stefna beint í áttina til sín. Hann stökk á fætur og þaut í hendingskasti ofan hálsinn og inn í hús til móður sinnar.

,,Mamma" sagði hann og hélt sér dauðahaldi í hana, ,,eg er svo hræddur."

,,Við hvað ertu hræddur góði minn?"

,,Þegar eg var uppi hjá húsinu mínu, þá sá eg langt í burtu — langt austur á sléttunni — óttalega stóra og ljóta skepnu — og er hræddur."

,,Hvernig sýndist þér hún lfta út?"

,,Hún 'var ljót — óttúlega stór og ljót — og hún ætlar að taka mig", og hann hjúfraði sig aftur að móður sinni.

,,Vertu ekki hræddur", sagði móðir hans. ,,Þessi skepna, sem þú sást, heitir *Dauði*. En hann gjörir þér ekkert. Hann hefir ætlað að finna einhvern annan austur á sléttnnni."

En drengurinn trúði því ekki meira en svo. Alt kveldið var hræðsla í honum, og hann þorði ekki að fara neitt frá móður sinni. ,,Mamma", sagði hann aftur, ,,hefir þú nokkurntíma séð hann — hann Dauða?"

,,Já, góði minn. Eg sá hann þegar eg var lítil stúlka á aldri við þig, og *þá* hræddist eg hann. Síðan hef eg séð hann oftar en einusinni, og nú hræðist eg hann ekki."

Drengurinn sagði ekkert. Hann gat ekki skilið í því, hvernig móðir hans gat verið óhrædd við þá skepnu. Og í marga daga sat hann heima hjá henni, og þorði ekki að fara upp á hálsinn.

———

Þannig hirtist dauðinn hinum unga vini vorum í fyrsta sinn.

Svo liðu mörg ár. Drengurinn óx upp og varð að ungum manni. Dauðinn hafði ekki birst honum aftur, enda langaði hann ekki til að sjá hann, því hann mundi vel eftir, hvað hann var hræðilegur. Þau mæðgin voru nú farin burt úr litla húsinu, sem stóð vestan undir hálsinum; móðir hans var orðin hrum af elli og talaði oft um dauðann, og þá ætíð sem kærkominn vin, og sonur hennar hlustaði þá þegjandi á tal hennar. Eftir þeirri viðkynningu, sem hann hafði af Dauðanum, þá gat hann ekki skilið, hvernig nokkur færi að skoða hann sem vin.

Og svo kom fyrir hann það mótlæti, að móðir hans veiktist og dó, og nóttina eftir lát hennar sat hann yfir líkinu og var mikið að hugsa um dauðann, og í sambandi við þær hugsanir reis upp mynd af ófreskjunni sem hann sá forðum, og móðir hans hafði sagt honum að héti Dauði.

Þá nótt sá hann Dauðann í annað sinn, en ólíkan því sem hann var áður.

Ófreskjuhamurinn var horfinn. Hann veltist nú ekki lengur áfram eftir jörðinni í myndum ýmsra óargadýra, heldur var hann nú búinn að taka á sig mannsmynd, að sönnu stóra og hrikalega svo hinn unga mann óaði við, en þó var það mannsmynd, en ekki skrýmsli, sem hann sá. Hann var nú mikið nær en áður, það leyndi sér ekki, að honum hafði talsvert miðað áfram í áttina öll þessi ár.

En þrátt fyrir þessa breytingu, sem hann hafði tekið til batnaðar, þá greip hinn unga mann megn hræðsla, og hann óskaði, að Dauðinn vildi hverfa sem

fljótast. En það varð ekki, og hann gat ekki slitið af honum augun. Hann vissi, að hann stefndi til sín — sá hann þokast áfram hægt og seint en altaf í áttina, og vissi, að hann mundi fyrr eða síðar koma til sín — vissi, að það var árangurslaust fyrir sig að flýja því hvert sem hann reyndi að fara, þá mundi Dauðinn fyrr eða síðar ná sér. Og við að horfa á hann, þá veitti hann nokkuru eftirtekt, sem hann hafði ekki séð áður: Á bak við Dauðann sá hann glampa af birtu, eins og þar væri skært ljós, sem kastaði bjarma yfir alt, sem nálægt var. Og þessi birta fylgdi Dauðanum eftir, þokaðist áfram jafnt honum, en fór aldrei fram fyrir fætur hans.

Þannig birtist Dauðinn honum í annað sinn.

Og hinn ungi maður hugsaði mikið um þetta, og sérstaklega var hann að brjóta heilann um það, hvort móðir sín mundi hafa séð Dauðann í þessari mynd, þegar hann kom að vitja hennar.

---

Enn liðu mörg ár. Hann var orðinn fjölskyldumaður og átti konu og mörg börn. Sum börn hans dóu ung, og heilsuleysi var farið að sækja á hann. Tvisvar hafði Dauðinn birst honum og nú í seinni tíð var hann oft að hugsa um, hvað honum mundi nú líða, hvað langt hann mundi nú vera frá sér, og hvernig hann mundi nú líta út. Hann var nú orðinn fimtugur að aldri, og var farinn að halda, að Dauðinn mundi ekki ætla að birtast sér framar, fyrr en hann birtist sér í síðasta sinn.

En það fórst nú samt fyrir, því Dauðinn lét hann

sjá sig einu sinni enn, og það þegar hann átti síst von á. Hann sá hann að eins í svip, en nú var hann kominn svo nálægt, að hann gat séð nákvæmlega hverja hreyfingu hans. Alt hið tröllslega og viðbjóðslega, sem áður hafði verið í sambandi við hann, var nú horfið; hann leit út eins og aldraður maður, og blíðlyndi og góðmenska skein á ásjónu hans. Fram undan honum var svartnættismyrkur, en á bak við hann var alt bjart og ljómandi.

Og söguvini vorum stóð nú ekki meiri ógn af honum en það, að hann ásetti sér að ganga á móti honum til að stytta honum leið. En þegar hann ætlaði að hreyfa sig, þá komst hann ekkert úr sporunum.

---

Og nú er að eins eftir að segja frá, hvernig Dauðinn birtist þessum vini vorum í fjórða og síðasta sinn.

Haun var nú orðinn örvasa gamalmenni, hættur að geta unnið fyrir sér, og hættur að hafa nokkura ánægju af lífinu. Hið helsta, sem hann gat nú gjört sér til dægrastyttingar, var að ganga úti, þegar veðrið var gott, og hugsa — hugsa um liðna tímann.

Eina nótt þegar hann var venju fremur lasinn og máttfarinn, þá opnaði hann augun og sá að bjart var um alt herbergið, og í birtunni stóð einhver hvítklædd vera.

,,Hver ert þú'', spurði gamalmennið og reis með áreynslu upp við olnboga.

En veran sneri sér að honum og rósemd og blíða ljómaði af andliti hennar.

,,Jarðarbúar kalla mig Dauða.'' En eg er sendi-

boði drottins. Hann þarf þín nú með og sendi mig til að sækja þig."

Og gamalmennið reis upp og rétti báðar hendurnar á móti Dauðanum og sagði: „Vertu velkominn! Þú hefir verið lengi á leiðinni. Taktu mig nú og berðu mig fram fyrir drottin."

Og Dauðinn brosti og laut niður að honum og tók hann í fang sitt eins og móðir hans var vön að gjöra, þegar hann var lítill drengur; og hann hallaði höfði sinu að brjósti Dauðans alveg eins og hann var vanur að halla sér að brjósti móður sinnar, og svo fóru þeir á stað og himnesk birta ljómaði alt í kring um þá.



# SAFN
## til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi.

**Saga íslenzku nýlendrnnar í bæi.um Winnipeg.**

**Eftir síra Friðrik J. Bergmann.**

### 21. ,,FRAMFARI" HÆTTIR.

Eins og áður er tekið fram (Almanakið 1903) stofnuðu Íslendingar í Nýja Íslandi blað, sem byrjaði út að koma 10. sept. 1877, og nefndu þeir það ,,Framfara". Það blað fjallaði eðlilega mest um mál nýlendunnar þar niður við vatnið og stóð fremur illa að vígi með að geta aflað sér frétta, þar sem það kom út norður við Íslendingafljót, á norðurenda nýlendunnar, í mikilli fjarlægð við Winnipeg-bæ, en samgöngur fremur ógreiðar og ekki nærri því eins tíðar og skyldi. Það flytur því fremur litlar fréttir og fáar af Íslendingum í Winnipeg og er það skaði fyrir sögu þessara fyrstu ára. Samt sem áður höfum vér í ýmsu getað stuðst við smágreinir, er þar standa, sem að einhverju leyti hafa varpað ljósi yfir líf landa vorra í borginni og tekið fram með fáum orðum ýmislegt af því, sem þá

þar við í hópi þeírra. En þegar hér er komið sögunni, vill það óhapp til, að „Framfari" verður að hætta að koma út. Kaupendur hafa ekki staðið í skilum, eins og oftar hefir við borið, fyrirtækið þess vegna ekki borið sig, en safnað skuldum, er loksins námu býsna mikilli upphæð, svo blaðið varð að hætta. Þótti öllum það illa farið, því ýmislegt gott hafði það haft meðferðis, og þrátt fyrir alt verið augljós vottur um ofurlítið andlegt líf meðal þess brots þjóðarinnar, sem vestur var fluttur. Hinn 30. janúar kemur út síðasta blað „Framfara" og er þá einungis hálft. Var það 38. tölublað annars árgangs. Nú eiga Íslendingar hér ekkert fréttablað og undu því illa. En flestum kom saman um, að þegar íslenzkt blaðfyrirtæki risi á fót aftur, mundi það hvergi annars staðar verða, en í Winnipeg. Enda kom það æ betur í ljós, að nýlendan í Winnipeg mundi eiga mikinn og fagran þroska fyrir höndum og að þar mundi einmitt verða þungamiðja andlegs lífs með Íslendingum vestan hafs. Árið 1880 leit ekki út fyrir, að mikið ætlaði að verða úr slíkum vonum, því þá hætti „Framfari" út að koma og þá flutti síra Jón Bjarnason heim til fósturjarðarinnar og gjörðist þar prestur. Yfir árinu 1880 og framan af árinu 1881 hvílir eins konar miðaldamyrkur. Þá voru menn að brjótast úr Nýja Íslandi tugum og hundruðum saman og flytja örsnauðir og illa leiknir suður til Dakota og vestur til Argyle. Sumir námu staðar um lengri eða skemmri tíma í Winnipeg. Aðrir settust þar að fyrir fult og alt. Fátæktin hefir eflaust aldrei verið meiri hjá öllum þorra fólks vors hér en einmitt um þetta leyti, því fé manna hafði mjög til þurðar gengið í Nýja Íslandi, það lítið, er þeir höfðu með sér haft, er

þeir komu frá Íslandi, og þótti þá óvænlega líta út fyrir mörgum. Kusu þá margir heldur að freista gæfunnar í bænum en að flytja blásnauðir út á land og fara þar að berjast um með tvær hendur tómar. Mun Íslendingahópurinn í Winnipeg hafa stórum fjölgað um þetta leyti. Einkum var þar urmull af ungu fólki íslenzku, og rann margur peningurinn úr vasa þess til frænda og vina út um nýlendurnar.

## 22. KANADA-KYRRAHAFSBRAUTIN.

En um þetta leyti var verið að koma í framkvæmd hér í Kanada einu hinna mestu stórvirkja heimsins. Þessi árin var verið að leggja hina frægu Kanada-Kyrrahafsbraut frá hafi til hafs. Það er eitt hið mesta þrekvirki, sem unnið hefir verið, því hún var lögð yfir ógurlegt landflæmi, öldungis óbygt hvítum mönnum, og yfir Klettafjöllin þar sem þau eru einna hæst, torsóttust og geigvænlegust. Það þótti í frásögur færandi, þegar Bandaríkin lögðu Kyrrahafsbrautir sínar og eru þau þó ein hin voldugasta þjóð heimsins og auðugasta. Og þegar nágrannar Bandaríkjanna fyrir norðan, sem enn voru smáþjóð ein í samanburði við þá, færðust slíkt feikna fyrirtæki í fang, fanst mörgum það barnaskapur einn og ofdirfska. En það reyndist á alt annan veg. Það hepnaðist prýðilega og hefir reynst eitt hið happasælasta fyrirtæki fyrir land og þjóð. Brautin tengir þetta óumræðilega víðáttumikla landflæmi saman og gjörir þjóðina að einni heild. Þess vegna fóru Kanadamenn að bera höfuðið hátt, þegar þeir sáu að Kyrrahafsbrautar-fyrirtækið ætlaði að hepnast, enda urðu þeir frægir fyrir það um heim allan. Fjör og

áhugi færðist í þjóðina alla. Hingað til hafði hún ekki haft nema hálfa trú á landinu sínu. Nú breytist það svo, að hvarvetna meðfram brautinni sáu menn nýjar auðsuppsprettur opnast.

Hvergi var auðlegð þessi augsýnilegri en í Manitoba-fylkinu. Hugur fjölda manna snerist nú þangað, Manitoba fylkið liggur í miðju landi og er lang-frjóast af löndum Kanadamanna. Höfuðborg fylkisins, Winnipeg, var um þessar mundir óðum að vaxa. Hún var þegar tengd við umheiminn með Emerson-brautinni, er Kanada-Kyrrahafsbrautar-fél. þegar hafði látið leggja (1879); lá hún suður að landamærunum og setti Winnipeg í beint járnbrautarsamband við stórborgirnar St. Paul og Minneapolis í Minnesota-ríki. Á þenna hátt voru þegar komin járnbrautar-tengsl milli Winnipeg og Bandaríkjanna. Var það mikil umbót frá því sem áður var, þegar skipaferðir eftir Rauðá voru einu samgöngufærin.

En nú kemur aðal Kanada-Kyrrahafsbrautin til sögunnar. Hún tengir Winnipeg ekki að eins við stórborgir Kanada austur frá, svo sem *Quebec*, *Montreal*, *Toronto* og aðsetur stjórnarinnar sjálft, *Ottawa*, heldur líka við alt hið mikla meginland fyrir norðvestan, alla leið vestur að Kyrrahafi. Það lá því í augum uppi, að Winnipeg hlaut að eiga glæsilega framtíð fyrir höndum. Bærinn stendur á mjög heppilegum stað á frjósömu sléttlendi við Rauðá, þar sem *Assiniboine* áin fellur í hana, hér um bil 70 mílur fyrir norðan landamæri Kanada og Bandaríkjanna. Hér var eðlileg þungamiðja allra flutninga um landið. Hér var sjálfsögð hvíldarstöð í miðju meginlandi fyrir vörumagn og verslun Kanadamanna. Hér var um

leið sjálfkjörin dreifingarstöð fyrir þetta vörumagn og verslun út um alt hið geysimikla Norðvesturland, sem hin nýja braut lauk nú fyrst upp eins og huldum heimi. Líkurnar bentu allar í þá átt, að Winnipeg ætti fyrir hendi að verða stórborg og þýðingarmikil fyrir verslun og viðskiftalíf Kanadamanna.

## 23. FJÖRKIPPURINN.

Þegar mannfélagið um þessar slóðir komst í skilning um þetta og brautin var í þann veginn að koma til bæjarins, tók viðskiftalífið fjarska mikinn fjörkipp. Fjöldi ötulla kaupsýslumanna þóttist skilja, að Winnipeg væri einmitt staðurinn til að safna auð á skömmum tíma. Fasteignir tóku að stíga í verði. Fólk þusti til bæjarins, til þess að láta ekki gróðafærin ganga sér úr greipum. Hús og bæjarlóðir fóru að ganga kaupum og sölum á degi hverjum við miklu hærra verði en verið hafði. Menn tóku að kaupa hver í kapp við annan, ekki til að eiga sjálfir og njóta, heldur til að selja og græða. Margir gjörðu stór kaup, án þess að greiða nema lítið fé af hendi í bili, í von um, að þeir mundu verða búnir að selja aftur með nokkurum ágóða áður næsta afborgun félli í gjalddaga. Fátækir menn festu kaup í lóðarbletti og létu fara að gjöra þar hús, sem þeir ef til vill seldu áður en það var hálfsmíðað. Þá varð svo mikið um húsagjörð í bænum, að undrum þótti sæta. Kaupgjaldið varð geysihátt í samanburði við það, sem áður hafði verið, og hver maður gat fengið vinnu, sem eitthvað vildi hafast að. Húsaleiga hækkaði að sama skapi. Nú þurftu Íslendingar ekki að kvarta um vinnuleysi. En mjög var þeim það nú til baga, eins og oftar, hve

fákunnandi þeir voru. Flestir urðu að sæta óbreyttri vinnu, er enga sérstaka kunnáttu þurfti til, því fáir voru þá handverksmennirnir. Munu Íslendingar langflestir hafa unnið við að bera tígulsteina og steinlím og þótti þeim það þrældómur allharður, ekki síður en Ísraelsmönnum forðum í Egiptalandi. En það bætti úr bakverknum, að vinnan var ágætlega borguð. Það þótti þá bærilegt kaupgjald að fá 3 doll. 25 cts. til 3.75 á dag fyrir slíka vinnu, enda var það líka.

Sumarið 1881 var alt í uppnámi í litla höfuðstaðnum í Manitoba, sem nú var að verða að borg, — alt á tjá og tundri. Fasteignir gengu kaupum og sölum á hverjum degi eins og munaðarvara. Sumir voru svo hepnir að græða svo hundruðum skifti á einum degi. Ef til vill gjörðu sumir kaup að morgni dags og voru búnir að selja aftur að kveldi með miklum ágóða. Þegar svo gengur, þarf á töluverðri stillingu að halda, svo blóðið hitni ekki um of, og maður gjöri sér einlægt grein fyrir, að eitthvert vit sé í ráðlaginu. Flestir tefla þá upp á tvær vonir og eiga mikið á hættu. Þessir varasömu fjörkippir koma fyrir í viðskiftalífi allra stórborga. Verð á fasteignum flýgur þá langt upp fyrir eðlileg takmörk og réttmæt. Margir glæpast þá á að kaupa við háu verði og ætla sér að bíða þangað til það hefir hækkað um svo og svo mörg hundruð, gætandi ekki þess, að alt hlýtur að hafa sín takmörk. Þeir, sem slungnastir eru og æfðastir, eru einlægt að kaupa og selja, selja og kaupa, þegar svona er ástatt, og varast að hafa meira á höndum sér, en þeir sjá sér nokkurn veginn farborða með. Hvergi í heiminum hafa þessir stórkostlegu fjörkippir, en um leið varasömu, oftar komið fyrir en

í stórborgum Bandaríkjanna. Í þessum kippum hafa bláfátækir menn vellauðugir orðið, en stórríkir menn öreigar. Lífið gengur þá með margföldum hraða. Þá gjörist oft meira á einu ári eða tveimur, en tíu vanalegum. Þá er líka mörg fjárglæfraförin farin. Margur maðurinn, sem annars hefir kunnur verið að gætni og ráðhygni, hefir hlaupið út á þann hála ís og fengið slæma byltu.

### 24. ÍSLENSKT GRÓÐABRALL.

Íslendingar hefðu hlotið að vera miklu daufgerðari og skilningssljórri en þeir eru, ef þeir hefðu látið alt þetta fara fram hjá sér og alls ekki látið dragast inn í straumiðu þessa fjöruga viðskiftalífs, þar sem fátækir menn, með tvær hendur tómar, eins og sjálfir þeir, oft og tíðum virtust komast yfir nokkur efni á skömmum tíma. Enda var ekki langt fram á árið (1881) liðið áður, þeir fóru að freista gæfunnar. Fyrsta íslenska fólkið, sem var svo djarft, að leggja út í gróðabrall þetta, voru þeir Helgi Jónsson, sem síðar varð ritstjóri blaðsins „Leifs", og Eyólfur Eyólfsson, báðir af Austurlandi, hjón ein, sem Björn og Oddný nefndust, og kona ein ung og ógift, Guðrún Jónsdóttir frá Máná í Þingeyjarsýslu, sem síðar varð kona Kristins Stefánssonar, skáldsins. Fólk þetta alt keypti sér bæjarlóðir fyrir vestan miðskólann, sem kallaður var, (*Central School*), þegar snemma vorsins. Munu þær hafa kostað um 250 doll. hver. Fráleitt mun fólk þetta hafa átt nóg fé fyrirliggjandi til að borga lóðirnar að fullu. Að líkindum hefir enginn nema mjög litla upphæð borgað um leið og kaupin gerðust, að eins nóg til að festa kaup í þeim, eins og kallað er.

Guðrún mun t. d. að eins hafa átt eina 20 doll. til að byrja með. En um þessar mundir var lánstraustið nóg. Það var svo ótakmarkað, að þeir, sem að eins höfðu fest kaup í bæjarlóð, gátu þegar látið fara að byggja. Allir þessir Íslendingar létu gjöra hús á þessum lóðum sínum. Þau voru öll fremur lítil timburhús, en með steinlímdum veggjum og loftum að innan og allvel frá þeim gengið. Ekki hvíldu þau þó á neinum steingrunni, heldur að eins á trjábútum, sem lagðir voru ofan á jörðu, og létu menn sér það byggingarlag nægja við allflest smáhýsi lengi fram eftir. Hið minsta af húsum þessum mun hafa kostað 350 doll. eða 600 með lóðinni. Það var hús Guðrúnar Jónsdóttur. Hún leigði það um tvo mánuði og fekk 12 doll. í leigu fyrir hvern mánuð. En að þeim tveim mánuðum, liðnum bauðst henni kaupandi að húsinu og seldi hún það þá fyrir 1,000 doll. Hafði hún þá grætt 400 doll. á þessu fyrirtæki sínu, auk húsaleigunnar. Hún seldi húsið í júnímánuði um sumarið. Stendur hús þetta enn, og bjuggu þeir í því fyrir eina tíð Jón Björnsson frá Héðinshöfða á Tjörnesi og Kristján sonur hans.

Bárður Sigurðsson frá Æsustöðum í Eyjafirði keypti um vorið lóðina, sem Íslendingafélagshúsið síðar var reist á. Sú lóð var seld við uppboð að kveldi dags, eins og þá var títt, og var Bárði þar af hendingu reikað fram hjá. Hann þóttist skilja, að hér væri um góð kaup að ræða, og hvatti landa sinn einn, sem nýkominn var úr járnbrautarvinnu með töluvert af peningum í fórum sínum, til að kaupa lóðina. En hann brast áræði til þess. Hafði Bárður þá að eins 6 doll. í vasanum og lét slá sér lóðina á 150

doll. Varð hann þá að lána 44 doll. hjá þessum landa sínum til þess að geta borgað 50 doll. út í hönd og gekk það greiðlega. Lóð þessa átti hann svo sem mánaðartíma. Þá seldi hann Jóni Júlíus hana og mun hann hafa keypt hana fyrir hönd Helga heitins Jónssonar, sem eftir það varð eigandi hennar, og fekk nú Bárður 250 doll. fyrir áræði sitt.

Helgi heitinn Jónsson var smiður og mun seinna nokkuð gjör verða frá honum greint. Hann mun hafa verið fyrsti íslenski smiðurinn, sem tók að sér að standa fyrir húsagjörð. Hann festi um þessar mundir kaup í heilmörgum fasteignum og lék sá orðrómur á innan skamms, að hann væri auðugur maður orðinn. Hús eitt lét hann gjöra á Pacific ave. rétt fyrir vestan Nena með einum sjö herbergjum, og þótti það stórhýsi eftir því, sem þá var kallað, enda stóð nokkuð lengi á byggingunni og mun það hafa kostað allmikið fé. Lóðina, sem hann keypti að Bárði Sigurðssyni, gaf hann Íslendingafélaginu, sem nú kallaði sig Framfarafélag, nokkurn veginn um leið og hann var orðinn eigandi hennar, með því skilyrði, að félagið reisti sér þegar samkomuhús á henni. Var gjöfin feginsamlega þegin og skilyrðið uppfylt. Hélt félagið fyrsta fund sinn í húsinu 10. júlí 1881. Frá þessu er sagt í dálítilli yfirlitsritgjörð í 5. tölublaði *Leifs* (8. júní 1883) eftir Svein Björnsson um sögu Framfarafélagsins. En það er tekið fram um leið, að Helgi Jónsson hafi sumarið 1880 keypt *fyrstu bæjarlóð* og selt aftur með töluverðum gróða; hafi honum síðan græðst svo fé, að hann hafi getað gefið félaginu þessa höfðinglegu gjöf. Að hann hafi keypt ,,fyrstu bæjarlóð" þýðir að líkindum það, að hann hafi fyrstur allra

Íslendinga orðið eigandi að fasteign. Og þá hefir það verið töluvert löngu áður en fasteignakaup þau gjörðust, sem sagt er frá hér að ofan. Um haustið 1881 (4. okt.) tókst Helgi Jónsson skemtiför á hendur til Íslands. Var þá á orði, að hann væri auðugastur allra Vestur-Íslendinga, enda var hann í gamni gullbarón nefndur á fósturjörð sinni. Mun það hafa verið vegna þess, að hann þótti næsta óspar á fé og örlátur, þegar honum þótti svo við horfa, eftir því sem menn áttu þar að venjast. Var hann þó maður hægur og stiltur og yfirlætislaus í öllu.

Björn Guðmundsson Líndal (síðar Byron) Skúlasonar frá Vesturhópi í Húnav.sýslu bar eitt sinn sem oftar kveld eitt þar að, sem uppboð var haldið á bæjarlóðum. Var það svo snemma á tímum þessum, að hann segist eiginlega ekkert hafa botnað í því, sem þarna var verið að gjöra. En hann sá þarna ýmsa menn innlenda, sem hann þekti, og að því voru kunnir, að varpa ekki fé sínu á glæ; þeir buðu þarna í bæjarlóðir hver í kapp við annan, svo Björn lét sér skiljast, að þarna væri eitthvert meir en lítið gróðaspil á ferðinni. Þá var Úlfur (*Wolfe*) gamli uppboðshaldari og var að bjóða upp lóð eina langt úti á *Burrows ave.*, sem þá var lengst út úr öllu veldi, enda voru menn tregir að bjóða. Loks var komið upp í 14 doll. Þá kallaði Björn 15 og var honum slegin lóðin. Þá var hann jarðeigandi orðinn hér í Vesturheimi, þótt í smáum stíl væri. En ekki lét hann sér annara um þetta en svo, að hann segist aldrei muni hafa farið að skoða lóðina. En þegar hann var búinn að eiga hana í einar þrjár vikur, kemur Jónas Bergmann (kapteinn) til hans og falar að honum lóðina. Björn vildi þá hafa

125 doll., en Jónasi hefir víst þótt nóg að gefa 100. „*Split the difference*", sagði Jónas. „*Allright*" sagði Björn. Svo voru kaupin gjörð og fekk Björn 112 doll. og 50 cents fyrir lóðina. Síðar voru þeir þrír í félagi, Björn, Sigurður Jónsson frá Miklabæ og Jósef Miðdal, og keyptu allir tvær lóðir á 275 doll., áttu þær í sex vikur og seldu þá fyrir 850 doll.

Þetta, sem hér hefir sagt verið, er einungis ofurlítið sýnishorn af verslun þeirri með fasteignir, er hófst hér í bænum um þessar mundir, og um leið sýnishorn þess, hvernig Íslendingar leituðust við að taka þátt í henni og færa sér hana í nyt, þótt þeir að mörgu leyti stæðu fremur illa að vígi með það. Að segja frá öllu því gróðabralli, sem gjörðist með mönnum um þetta leyti, og rekja alla fasteignaverslun Íslendinga út í hörga væri öldungis ókleyft ætlunarverk, enda í rauninni alveg þýðingarlaust.

### 25. FRÁ JÓNI JÚLÍUSI.

Maður er nefndur Jón Júlíus, og hefir hans þegar getið verið. Hann er eyfirskur að kyni, alinn upp á Akureyri og sonur þess manns, er Jón smiður nefndist. Þess skal hér getið til skýringar nafni hans, að margir voru hér Jónar Jónssynir um þessar mundir, og næsta torvelt að greina nöfn þeirra sundur, eins og oft vill verða þar sem margir Íslendingar búa saman. Varð það þá hér sem oftar, að ef einhver Jóninn hét öðru nafni, var það ávalt nefnt um leið, en föðurnafninu þá slept. Til aðgreiningar frá öðrum Jónum var þessi Jón ávalt í daglegu tali nefndur Jón Júlíus, en föðurnafnsins hvergi getið. Þegar Íslendingar töluðu um hann við innlenda menn, nefndu þeir hann ætíð Jón

Júlíus, eins og þeim var tamt í sinn hóp. Komst þá sá skilningur inn hjá þeim, að Jón væri skírnarnafn, en Júlíus ættarnafn, eins og það hefir ávalt verið öðrum þræði síðan á dögum gömlu Rómverja. Þegar hann fór að láta rita nafn sitt í opinber skjöl, svo sem eignar og afsalsbréf fyrir fasteignum, tók hann það ráð að láta þenna skilning haldast við, sem þegar var kominn inn í huga manna. Tók hann þannig seinna skírnarnafn sitt og gjörði það að ættarnafni. Mun flestum finnast, að það hafa verið eðlileg, hentug og nærri sjálfsögð tilbreyting. Hún er eðlileg vegna þess, að á þenna hátt hafa ættarnöfn til orðið um heim allan, hentug af því maðurinn með þessu móti var heppilega aðgreindur frá öllum öðrum, og sjálfsögð, þar sem hin nafnaflækjan kemur hættulegum og óhafanda ruglingi af stað. Væri óskandi, að öllum Jónum, sem í vandræðum verða með nöfnin sín, tækist jafn-heppilega að breyta þeim til. Að alment séu ættarnöfn upptekin, er eitt af því, sem sjálfsagt verður fyrir hverja siðaða þjóð. Það virðist vera nokkurnveginn sjálfsögð afleiðing siðmenningarinnar.

Jón Júlíus fór snemma að taka þátt í fasteignaversluninni upp á eigin býti, og var manna hepnastur í þeim kaupum og sölum. Var hann því af ýmsum fenginn til að vera milligöngumaður í þeim efnum og þótti honum farast það vel. Sjálfur keypti hann tvær bæjarlóðir á *Jemima* stræti, sem þá var svo nefnt (nú *Elgin ave.*) sumarið 1881 og lét gjöra þar hús; þar býr nú Sigurður Bárðarson, smáskamtalæknir. Kostuðu lóðirnar 400 doll., en húsið, er hann lét á þeim reisa, hér um bil 250 doll. Tveim mánuðum eftir að húsið var fullgjört, seldi hann eignina með 500 doll.

hreinum ágóða. Keypti hann þá aftur tvær lóðir aðrar á sama stræti; lét hann reisa hús á þeim báðum og standa þau enn. Í öðru þeirra býr nú Gísli Guðmundsson (Goodman); í hinu bjó Finnur Jónsson til skamms tíma. Fekk hann lóðirnar fyrir 500 doll.

### 26. GRÓÐAFÉLAGIÐ.

Um haustið 1881 myndaðist félag eitt meðal Íslendinga í Winnipeg, sem tíðræddara hefir orðið um en flestan félagsskap annan, er upp hefir risið. Hefir áður verið á það bent, hvílíka oftrú Íslendingar höfðu um þessar mundir á félagsskap. Mjög alment var svo á litið, sem samtök og félagsskapur í einhverju ákveðnu augnamiði væri eins konar töfralykill að alls konar auðlegð, völdum og metorðum, eða með öðrum orðum að öllum þeim heimsgæðum, er menn mest af öllu langaði til að eignast hér í þessum nýju heimkynnum. En oftast var ætlunarverkið svo draumkent og óákveðið, að naumast var við því að búast, að árangurinn yrði mikill.

En þegar farið var að tala um, að stofna gróðafélag með Íslendingum til að versla með fasteignir, fanst flestum ætlunarverkið mjög ákveðið og þess vegna líklegt að vel mundi ganga. Hugmyndin var, að fá helst alla Íslendinga, sem í bænum voru um þessar mundir, og eitthvað höfðu eignast, annaðhvort í löndum eða lausum aurum, til að ganga í gróðafélag þetta. Með því móti vonuðust menn eftir, að þetta íslenska félag mundi standa æði-mörgum innlendum fasteignasölum jafnfætis og geta jafnvel staðið þeim dálítið á sporði með að ná í gróðann.

Eins og sýnt hefir verið fram á hér að ofan,

höfðu allmargir Íslendingar tekið þátt í fasteignaverslun þessari sumarið 1881. Voru þeir auðvitað miklu fleiri en þeir, sem bent er á hér að framan. Þar eru að eins fáein dæmi til tínd af ótal mörgum, og eru alveg af handahófi tekin. Um haustið var það heill hópur orðinn af Íslendingum, sem keypt höfðu bæjarlóðir, látið á þeim gjöra hús, og ýmist selt aftur með töluverðum ágóða, eða þeir áttu þau, í von um að geta selt þau þá og þegar.

Í nóvembermánuði um haustið kom mönnum saman um að stofna til félagsskapar með Íslendingum í því skyni að reka þessa fasteignaverslun í stærra stíl en að undanförnu. Gengust fyrir því ýmsir hinna fremstu drengja og félagslyndustu í bænum og fekk það því góðan byr. Flestir, sem komist höfðu yfir eitthvað af fasteignum, voru fúsir á að ganga í félagið. Var Jón Júlíus kosinn framkvæmdarstjóri þess. Sjálft var félagið nefnt „Ávaxtarsjóður Jóns Júlíusar og félaga". Meðráðendur skyldi framkvæmdarstjóri hafa tvo, og voru til þess kjörnir Kristján Jónsson, Björnssonar, frá Héðinshöfða og Friðfinnur Jóhannesson frá Skriðu í Hörgárdal.

Nú voru fasteignir allra þeirra, sem í félagið gengu, virtar eða metnar til verðs og mun þá verðið oftast nær hafa verið ákveðið nokkuð hátt, til þess menn yrðu sem ánægðastir. Enginn lagði eins miklar eigur fram og Jón Júlíus. Hann gekk inn í félagið með eignir sem metnar voru á 2,049 doll. og 40 cts. Auk þess gengu margir inn í félagsskap þenna með töluverðar eignir og setjum vér hér dálitla skrá yfir mennina, er félagsskap þenna mynduðu, og eigur hvers eins eftir mati við inngöngu. Er bæði fróðlegt

að sjá, hverjir þeir voru, og eins að geta séð, hvað þeim hafði græðst yfir sumarið.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Þorsteinn Einarsson | $ 800 | Friðfinnur Jóhannesson | $ 800 |
| Jóhann Sigurðsson | 1000 | Hannes Hannesson | 800 |
| Jósef Sigvaldason | 700 | Kristján Júlíus | 500 |
| Erlendur Ólafsson | 500 | Kristján Jónsson | 400 |
| Pétur Bock | 400 | Guðmundur Einarsson | 500 |
| Jóhann Jóhannsson | 300 | Sigurgeir Einarsson | 500 |
| Jósef Miðdal | 100 | Sigurður Jónsson | 100 |
| Sigurbjörn Sveinsson | 200 | Brynjúlfur Teitsson | 200 |
| Guðný Aradóttir | 200 | Jóhann Gunnarsson | 200 |
| Jón Bjarnason | 100 | Jóhannes Jónsson | 100 |
| Davíð Jónsson | 100 | Torfhildur Holm | 100 |
| Andrés Bjarnason | 100 | Hjálmar Hjálmarsson | 600 |
| Jón Stefánsson | 1000 | Kjartan Sveinsson | 100 |
| Halldór Halldórsson | 250 | Guðrún Jónsdóttir | 100 |
| Pétur Pálsson | 200 | Jóhannes Björnsson Bray | 500 |
| Magnús Pálsson | 610 | Jóhann Gottfred | 300 |
| Magnús Jónsson | 200 | Helga Gísladóttir | 100 |
| Jónas Miðdal | 200 | Jónas Bergmann | 100 |
| Guðmundur Sveinsson | 200 | Guðmundur Jónsson | 300 |
| | | (en af því $253.70 frá Einari Mýrdal) | |
| Sigurbjörg Hannesdóttir | 300 | Baldvin Baldvinsson | 200 |
| Jónína Júlíus | 140 | Þórunn Jónsdóttir | 127 |
| Sigurður Hermannsson | 140 | Páll Friðfinnsson | 100 |
| Jón Jónsson frá Laufási | 300 | | |

Hve fullkomin þessi meðlimaskrá er, skulum vér láta ósagt, en líklega eru þarna lang-flestir taldir, sem í félaginu voru, enda er skráin tekin upp úr bókum félagsins, þeim sem enn eru til. Mest af upphæðum þeim, sem hver var ritaður fyrir í félaginu, var í húsum og lóðum. En dálítið var í peningum. Hér um bil allar fasteignir, sem við var tekið í félagið, voru seldar á stuttum tíma og aðrar keyptar í staðinn. Auk þess voru nokkur hús bygð. Þeir, sem vonbestir voru um vöxt og viðgang félagsins, voru stundum svo djarfir að spá, að með vorinu 1882 mundu eignir þess nema

$100,000. Hefðu þær með því móti mátt meir en fimm eða sexfaldast, því töluvert munu þær hafa verið fyrir innan 20,000 um haustið, eftir virðingarverði félagsins sjálfs.

Á skömmum tíma græddist nú félaginu heilmikið fé, eftir því sem reikningar þess sýndu. Ágóðinn frá 9. nóvember 1881 til 20. sama mánaðar, eða yfir eina tíu daga var reiknaður 15 af hundr. Ágóði á 165 doll. frá 20. nóv. til 28. sama mánaðar var ekki minni en 24 doll. 75 cents. Aftur er ágóðinn reiknaður frá 28. nóv. til 30. des. 8 af hundr. Þegar einhverir fluttu út á landsbygðina, sem þá átti sér oft stað, fengu þeir vanalega eignir sínar í félaginu útborgaðar í peningum, eftir því verði, sem bækur félagsins sýndu, að þær væru þá komnar í. Urðu þeir þá alls þess ágóða aðnjótandi, sem félagið reiknaði sér yfir þann tíma, sem hver hafði í því staðið.

Um veturinn 1882 lét félagið reisa tvö hús á Ross stræti. Er Kristján Kröyer eigandi að öðru þeirra, en hitt átti Jón J. Vopni þangað til nú fyrir skemstu. Þá var líka reist verslunarbúð ein allmikil á Ross stræti; var hún kölluð Sextán. Segja sumir, að nafnið hafi verið af því dregið, að smiðirnir voru 16, en seint þótti ganga smíðin. En aðrir segja, að nafnið sé dregið af því, að á Kanada-Kyrrahafsbrautinni voru örðugustu kaflarnir í Klettafjöllunum, þar sem sprengja þurfti gegn um þverhníptan hamarinn, kallaðir *fimtán* og *sextán*. Búðin var reist um kaldasta tíma vetrarins og þótti það álíka þrekvirki og að koma brautinni gegn um klettana. Það eru allar líkur til, að þessi skýring sé réttari hinni fyrri, og hélst nafnið við búðina til margra ára.

Í búðinni var nú sett upp þrenns konar verslun. Niðri var matvöruverslun og kjötsala (kjötmarkaður). En uppi á lofti var skóbúð og var hún undir umsjón íslensks skósmiðs, Andrésar Reykdal. Baldvin Baldvinsson var aðalmaðurinn við matvöruverslunina og hafði umsjón yfir þeirri deildinni fyrir hönd félagsins. Verslunin byrjaði skömmu fyrir jól. Húsin, sem félagið hafði látið reisa, leigðust fyrir 35—40 doll. um mánuðinn og borguðu því góðar leigu fyrir fé það, sem í þau hafði verið lagt. Virtist hagur félagsins með miklum blóma þenna vetur, þótt margar væru spárnar um framtíð þess. Mörgum þótti í mikið ráðist, þegar farið var að versla, enda vildu sumir félagsmenn njóta æði-mikilla hlunninda við verslunina, sem þeir þóttust að nokkuru leyti sjálfir eiga. Langflestir Íslendingar, sem eitthvað áttu, voru nú í félaginu með eigur sínar, sumir með aleigu sína alla, og það eiginlega allur fjöldinn, en nokkurir með einhvern hluta af eigum sínum. Samt voru þeir fáeinir, sem frá upphafi höfðu haft ótrú á félagsskap þessum öllum og ekki fengust tii að eiga neinn þátt í honum. En af því hinir voru í miklum meira hluta, sem í félaginu voru, var ekki trútt um, að heldur væri litið hornauga til hinna, er ekki vildu ganga í Gróðafélagið, því það var álitið hið stærsta og þarfasta fyrirtæki, sem Íslendingar hefðu nokkurn tíma haft með höndum. Síst er fyrir að synja, hvað úr félaginu hefði getað orðið, ef fjörið í viðskiftalífinu hefði haldist lengur við. Samt er hætt við, að sitt hefði farið að sýnast hverjum, þegar fram í hefði sótt, og meira farið að bera á sundrung og tortrygni. En það eru þau öflin, sem vön eru að

tvístra líkum félagsskap og þessum, hvarvetna þar sem hann rís upp, og verða honum að fótakefli.

En nú kom það atvik fyrir, sem svo að segja á svipstundu varð orsök þess, að viðskiftafjör þetta hjaðnaði niður eins og bóla, sem brestur. Veturinn 1882 var ákafur snjóavetur. Þá voru hjartdýr drepin með lurkum og bareflum í íslensku nýlendunni í Norður-Dakota í marsmánuði, af því fannfergjan var svo mikil, að þau komust ekkert áfram og sprungu oft af mæði í snjósköflunum. Og um vorið, þegar snjóa og ísa leysti, kom flóðið mikla í Winnipeg. Um það leyti, sem ána leysti, flæddi vatnið út um alt, uppundir Aðalstræti, og öll atvinna í bænum hætti. Broadway-brúin, sem tengdi bæinn við bygðina fyrir austan ána, brotnaði öll í mul í þeim jakagangi. Járnbrautarfélagið varð sums staðar, eins og t. d. suður hjá Emerson, að hafa gufubáta til að flytja fólk í milli, þar sem vatnið flóði yfir ákaflega stór svæði. Um þetta leyti voru að hefjast geysimiklir fólksflutningar inn í fylkið. Fjöldi fólks var á leiðinni, sem ætlaði sér að komast sem allra fyrst vorsins til fyrirheitna landsins, Manitoba, og raka þar saman auðlegð, eins og orð lék á, að allir væru þar að gjöra. Fólk þetta átti á leiðinni mesta ógrynni af skepnum og áhöldum, en varð fyrir fjarska tjóni á hvorutveggja, þegar flutningar teptust og alt stóð fast. Hey urðu menn að kaupa fyrir 80 doll. hvert vagnhlass í Emerson, en í bænum Brandon, hér um bil 130 mílur fyrir vestan Winnipeg, neyddust menn til að borga 100 dollars fyrir hvert vagnhlass af heyi til að forða gripum sínum frá hungurdauða. Vor þetta var ákaflega mikilla innflutninga von til Mani-

toba, meiri en nokkuru sinni áður. Stóð á þeim einmitt, þegar flóðið skall á. Höfðu þá innflytjendur hundruðum saman af gripum á járnbrautunum og urðu fyrir ógurlegu eignatjóni og alls konar missi. Leist þeim þá ekki á blikuna, eins og við var að búast, og týndu hug og dug og um leið trúnni á framtíð landsins. Þeir, sem höfðu ætlað sér að flytja, en ekki voru enn komnir á stað, hættu við og fóru hvergi, er þeim bárust fregnir af óförum þessum.

En þá dettur líka fjörið í viðskiftalífi Winnipegbæjar niður í dúna logn. Nú hættir eftirspurn eftir og bæjarlóðum alt í einu. Nú fær enginn, sem langar til að selja, nokkurn kaupanda. Húsaleigan lækkar nú á skömmum tíma svo undrum sætir. Þeir, sem áður höfðu leigt hús sín fyrir 40 doll. um máuuðinn, urðu nú að gjöra sig ánægða með tólf og síðar átta. Fasteignir féllu eðlilega í verði að sama skapi, og ómögulegt varð að selja, fyrir hve lítið verð, sem menn gjörðu eignir sínar falar. Nú tók að mestu fyrir fasteignaverslun Gróðafélagsins. Það hlaut að lúta sömu lögunum og aðrir. Búðarverslunin var hið eina, sem það fekk nú haldið áfram. Tóku þá ýmsir félagsmenn matvöru út í reikning sinn, svo að miklu fé nam. En þó þeir ættu fyrir því á pappírnum, hafði verslunin ekkert gagn af því, þar sem ekki var lengur hægt að selja neina fasteign. Samt var versluninni haldið áfram þetta ár (1882). En í ársbyrjun 1883 afsalaði félagið sér búðinni í hendur þeim Friðfinni Jóhannessyni (Finney) og Jóni Árnasyni, sem fengu hana upp í sinn hluta í félaginu. Nú var líka orðin óánægja mikil með félagsmönnum út af sameigninni. Eins og fara vill, þegar miður gengur, fundu nú félagsmenn félaginu og

forstöðumönnum þess alt til foráttu og töluðu um alt saman eins og eina ógurlega fjárglæfraför, er menn hefðu látið ginnast út í. Var þá ekki annað til ráða en að slíta félagsskapnum, enda var nú að því gengið. Var þá öllum eignum félagsins skift með félagsmönnum eftir þeirri virðing, sem á þeim var. Nokkurir þeirra voru búnir að fá eignir sínar þegar útborgaðar og höfðu notið góðs af gróða félagsins meðan best gekk. Sumir voru nú komnir út á landsbygðina og farnir að búa. En æði-margir áttu enn alt sitt, eða nokkurn veginn það, í félaginu. Milli þeirra var nú eignunum skift eftir eins réttum hlutföllum og unt var og varð þá kylfa að ráða kasti með það, hvað hverjum einum varð úr því, sem honum hlotnaðist.

Eitt af hlutabréfum félagsins höfum vér svo frægur orðið að sjá. Það má telja það víst, að mörgum þyki nú fróðlegt að sjá, hvernig þau litu út, þar sem svo langur tími er liðinn. Setjum vér það því hér orðrétt:

,,HLUTABRÉF.

JOHN JULIUS & CO.

$100.00. Hlutabréf nr. 87.

Samkvæmt lögum þessa félags, dagsettum 22. febrúar 1882, er herra ........ löglegur eigandi að eitt hundrað dollara innstæðu í verslunarsjóðnum.

Til þess að hlutabréf þetta geti orðið lögleg eign annars manns, þarf áritað samþykki félagsstjórnarinnar.

Winnipeg, Man., 1. júní 1882.

JOHN JULIUS. | FRIÐFINNUR JÓHANNESSON.
| KRISTJÁN JÓNSSON.''

Við skiftin, sem urðu í félaginu, hlaut nú eigandi þessa hlutabréfs bújörð suður í Dakota nálægt bænum Pembina með þremur mönnum öðrum. Urðu þeir að selja hana fljótlega fyrir eina 79 dollars og hafa því orðið fyrir miklum skaða á hlutabréfum sínum. En ef þeir hefðu haft efni á að halda í jörð þessa um tíma, mundu þeir hafa getað selt hana fyrir eina $2,000, enda mun hún hafa verið seld fyrir það ekki svo löngu seinna. Svona gekk flestum með það, sem þeir fengu út úr félaginu. Þeir höfðu engin efni á að halda þeim eignum og mistu þær annað hvort fyrir alls ekki neitt, þar sem þeir gátu ekki einu sinni borgað skatt af þeim, enda munu skuldir æði miklar hafa hvílt á sumum þeirra, eða þeir urðu að losa sig við þær fyrir hvað lítið, sem þeim bauðst. Stundum kann þetta að hafa verið óþoli og stillingarskorti að kenna, en langoftast efnaleysi. Og um þetta má ekki kenna gróðafélagsskapnum einum, því svona fór alveg eins fyrir þeim, sem ekki höfðu lagt eignir sínar inn í félagið. Útreið þeirra varð ekkert betri en hinna. Svo það er eiginlega ekki hægt að segja, að gróðafélagsskapurinn hafi orðið mönnnm að nokkuru verulegu tjóni, þótt hann eðlilega yrði að hætta, þegar svona var komið. Allir þeir, sem í honum höfðu verið og flutt út á landsbygðina til að reka búsýslu höfðu gott af félagsskapnum, því þeir höfðu losað sig við eignir sínar í félaginu og fengið þær útborgaðar. Hvort hinir, sem í gróðafélaginu voru, hefðu verið auðugri, ef ekkert gróðafélag hefði myndast, er mjög mikið vafamál. En gróðavonirnar höfðu brugðist mönnum og menn voru um þetta leyti nokkuð súrir í brotið, því alment atvinnuleysi fylgdi nú

öllum látunum og braskinu og deyfð og drungi hvíldi yfir öllu um tíma, eins og þegar dansað hefir verið alla nóttina og timbarmennirnir eru að hamra daginn eftir.

## 27. FRÁ HELGA JÓNSSYNI

Einn hinna einkennilegustu Íslendinga, sem uppi voru hér í Winnipeg um þessar mundir, var maður sá, er vér þegar höfum nefnt til sögunnar og Helgi Jónsson hét, Hallgrímssonar, bónda að Sandfelli í Skriðdal í Suðurmúlarýslu. Hann fluttist frá Íslandi til Kanada árið 1875 og kom snemma til Winnipeg. Hann var maður fremur einrænn í skapi og nokkuð dulur, en drengur góður, ötull og duglegur, svo honum sýndust þeir vegir oft og tíðum færir, er öðrum virtust ófærir. Eins og áður er ávikið, mun hann hafa keypt sér lóðarblett í Winnipeg á undan öllum öðrum Íslendingum. Lá blettur sá skamt fyrir vestan *Isabel* stræti og náði þvert yfir á milli strætanna *Pacific* og *Alexander ave.* Mun Helgi hafa keypt hann í október 1880 og selt aftur í júní 1881. Á því tímabili hafði verð lóðarinnar því sem næst sexfaldast. Og fyrsta íslensku íveruhúsin í borginni munu hafa verið þau, er Helgi og Baldvin Benediktsson, sem nú er bóndi í Argyle-sveit, smíðuðu vorið 1881. Var annað þeirra gjört fyrir Eyólf Eyólfsson frá Dagvarðargerði í Hróarstungu í Norðurmúlasýslu, en hitt fyrir Guðrúnu Jónsdóttur Arasonar frá Máná á Tjörnesi í Þingeyjarsýslu. Að minsta kosti annað þessara litlu húsa stendur enn; þau voru vestanmegin við *Gertie street*, á milli *Bannatyne* og *McDermot ave.*, skamt suðvestur frá *Victoria* og *Albert* skólunum (*Central*-skólan-

um svo nefnda*). Helgi Jónsson tók allmikinn þátt í félagsskap Íslendinga. Honum þótti Íslendingafélagið vera aðgjörðalítið og fanst það geta látið miklu meira til sín taka en það gjörði. Hann hvatti félagið til að eignast hús, og þegar aðrir sáu enga vegi, þóttist hann sjá ótal. Að síðustu keypti hann lóð og gaf félaginu, eins og áður er ávikið, með því skilyrði, að það tæki rögg á sig og léti þegar skríða til húsagjörðar. Þótti það höfðinglega gjört og var þegar farið að byggja. En um haustið 1881, kring um 4. okt., leggur hann upp í skemtiför til Íslands. Dvaldi hann þar um veturinn, en hvarf svo vestur aftur. Gjörði hann nú stórhýsi eftir því, sem þá var kallað á suðausturhorni *Spence* og *Notre Dame* stræta. Mun sú eign hafa kostað hann um 4,000 doll. að minsta kosti. Átti hann þá allmikið fé í fasteignum, en var í miklum skuldum um leið, og nú var enga fasteign unt að selja, en borga varð rentur af skuldum og skatta og skyldur, sem fasteignunum fylgdu.

28. „LEIFUR" KEMUR ÚT.

Um haustið 1882 voru heilmikil umbrot með mönnum í Winnipeg út af því að koma upp íslensku blaði. Áttu nokkurir hinir helstu Íslendingar fund með sér um það efni og kom þar fram allmikill áhugi fyrir því máli. Helstu hvatamenn voru þeir Jón Júlíus, Friðfinnur Jóhannesson, Magnús Pálsson, Helgi Jónsson, Þorsteinn Einarsson, organisti, og fleiri. Fóru þeir þess á leit við ungan námsmann íslenskan, sem útskrifast hafði af latínuskóla suður í Iowa-ríki vorið 1881, að hann tæki að sér ritstjórn á íslensku blaði, ef menn sæju nokkur tiltök að koma því á fót.

Boðuðu þeir hann á fund sinn og áttu saman mikið tal og langt um íslenskt blaðfyrirtæki. En niðurstaðan varð sú, að ekki væri unt að hafa saman fjármagn svo mikið, að út í slíkt væri leggjandi, svo að líkur væru til að bæri sig, og um leið væri hægt að borga sómasamlega fyrir ritstjórn og aðra vinnu við blaðið. Var því mál þetta látið niður falla að sinni. Helga Jónssyni einum fanst þetta vel fært, og gaf jafnvel í skyn, að þetta væri ekki einum manni ofætlun, ef hann hefði nógan áhuga á slíku fyrirtæki. Mun um þetta hafa verið talað með Íslendingum meir en flest annað veturinn 1882—3.

En um vorið 1883 leggur Helgi Jónsson einn af stað með nýtt blað íslenskt og þótti það heldur en ekki nýlunda út um bygðir Íslendinga. Hann nefndi blað sitt *Leífur* eftir Leifi hepna, sem eitt sinn fann Vínland hið góða, og var ekki nafnið illa til fundið. Blaðið kom út í húsi Helga Jónssonar á horni Spence og Notre dame stræta. Heldur þótti það fátæklega til fara, enda var það ekki mót von. Sjálfur var Helgi ritstjórinn, og var hann þó til þeirra hluta manna ólíklegastur. Hann var maður alls ómentaður og kunni auðvitað ekki að rita móðurmál sitt, svo að neitt lag væri á. Hann var stirður að tala og stirður að hugsa. En lang-stirðast var honum þó um að rita, eins og við var að búast, því þar hafði hann alls enga æfing, nema hvað hann kann að hafa ritað ættingjum sínum á Íslandi einstöku sendibréf, eftir komu sína til Ameríku. En hann áleit, að það væri brennandi áhugamál fyrir Íslendinga í landi þessu að eignast blað. Hann þóttist sjá, að enginn ætlaði til þess að verða, að koma því á fót. Þá rýkur hann til sjálfur

og segir : Fyrst þið gjörið það ekki, skal eg gjöra það. Auðvitað voru til menn í Winnipeg, sem miklu færari voru til þess en hann, að gjörast ritstjórar. En þeir menn sáu allir annmarkana, sem á því voru, og treystu sér því ekki. Hann gekk ekki að því grufl- andi, að blaðinu mundi í ýmsu áfátt verða. En hann hefir sjálfsagt haldið, að betra væri að veifa rangri skeifu en engri, og þess vegna lagði hann ótrauður á stað. Ekki var eiginlega vel fyrir fyrirtæki hans spáð. Allir þóttust vita, að blaðið mundi verða *Framfara* miklu lakara að ritstjórn og frágangi öllum, og voru mjög óánægðir með það. Samt kom mörgum saman um, að best væri að hlynna að fyrirtækinu eftir föng- um, úr því það væri af stað komið. Naut Helgi Jóns- son þess þá, að hann hafði aflað sér góðs orðstýrs og var að því kunnur, að vera vandaður maður og dreng- ur góður, með brennandi áhuga á framfaramálum Vestur-Íslendinga. Allir sáu, hvað viljinn var góður, og að hann hlaut meira en lítið í sölurnar að leggja.

Fyrsta tölublað *Leifs* kemur út 5. maí 1883. Þar ávarpar ritstjórinn Íslendinga í Vesturheimi og setjum vér hér niðurlagsorðin úr því ávarpi:

,,Eg vil leiða athygli yðar að því, að verði eg lát- in falla á þessu fyrirtæki, þá er það undir von, að það sjáist nokkurntíma íslenskt vikublað prentað hér meg- in Atlandshaf. og hljóti eg að hætta, mun valla verða árennilegt fyrir neinn að byrja, því það eru eigi margir meðal vor hér, sem geta lagt jafn mikið fé og þarf til þess að gefa út blað, út fyrir ekkert. Þess vegna vil eg biðja menn, ef þeim þykir eitthvað að blaðinu, að sýna mér fram á gallana svo eg geti bætt úr þeim, og eins senda í það góðar ritgjörðir í staðin

fyrir að hætta að kaupa það. Til þess að blaðið geti borið sig og þeir hafi sæmilegt kaup, sem að því vinna veitir eigi af að það hafi 15.00 *(sic)* kaupendur. Þetta mun nú þykja bísna há tala, og ólíklegt að hún fáist, þar sem *Framfari* hafði aldrei nema 600 kaupendur í allt og það voru að eins 300 af þeim hér megin Atlandshafs: en eg vil segja að eins og það voru 300 Íslendingar færir til að kaupa Framfara á dögum hans, hjer megin hafs, eins sjeu 3,000 færir til að kaupa þetta blað nú á dögum, og það sýnir glögglega að verði fyrirtækið látið stranda, þá er það einungis fyrir skeitingar og alvöruleysi manna. Að endingu vil eg láta yður vita, kæru landar! Það eru ekki mínir eigin peningar sem jeg er sár út af þó jeg tapi, því þó jeg missi $1 til 2.000 á fyrirtækinu, þá stend jeg jafnrjettur eptir sem áður, og jeg er miklu glaðari að tapa þeim á þessu fyrirtæki, heldur en þó einhver gæfi mér þá fyrir ekkert. Það er þjóðin íslenska, sem jeg er að hugsa um; það er hún, sem tapar meir en jeg með því að geta ekki haft gott dagblað á sínu eigin tungumáli. Jeg vona því, kæru landar, að þjer geti sjeð á þessu fyrsta númeri, að mjer er full alvara með að koma á fót blaði, og það er alvarlegt álit mitt, að það sé nauðsynlegt og jeg vona þess vegna að þjer sýnið alvöru á móti með því að láta yður eigi muna um að svara út fyrir það $2.00, það er sá eini peninga styrkur, er jeg bið um til þess. $2.00 frá hverjum einstakling, karl eður konu, sem hefir heilsu og fjör til þess að vinna sjer inn daglegt brauð.“

Þótt nú bæði stíl og réttritun sé nokkuð ábótavant, er það hrein furða, að það skyldi ekki vera enn lakara. En fátæklega mun mönnum hafa fundist

blaðið fara af stað og tóku margir fremur dauflega undir að kaupa það eður styrkja á annan hátt. En ekki kom ritstjóranum til hugar að gefast upp fyrir það. Hann var ekki talhlýðinn maður, heldur hélt hann fyrirtækjum sínum fram, hvað sem hver sagði á meðan hann mátti. Honum hefir víst nokkurum sinnum verið sagt, að þetta væri ekki hans meðfæri, mentunarlauss mannsins, að gefa út blað og vera sjálfur ritstjóri. En hann lét það lítt á sig fá og áleit það ekki mikinn vanda.

## 29. FRÁ KIRKJUMÁLUM.

Eins og áður er skýrt frá, fór síra Jón Bjarnason til Íslands árið 1880 og gjörðist prestur að Dvergasteini við Seyðisfjörð. En áður hann skildi hér við, vígði hann til prests kandídat Halldór Briem, sem þá varð eftir í Nýja Íslandi. Síra Páll Þorláksson var þá fluttur alfarinn til Norður-Dakota, og var um þetta leyti að stofna íslensku nýlenduna þar. En honum entist ekki aldur nema þangað til vorið 1882, er hann lést að Mountain í Pembina County, þar sem hann hafði numið land, og var öllum mönnum harmdauði. Þá var Halldór Briem eini presturinn íslenski vestan hafs og fundu allir til þess, hve það var ónóg. Fór hann suður til Minnesota, og var um tíma prestur íslensku nýlendunnar þar, í Lyon og Lincoln-sýslum. Síðan hvarf hann til Winnipeg og þjónaði söfnuðinum þar að einhverju leyti frá því um vorið 1882 og þangað til um mitt sumar. Þá hafði hann veiting fengið fyrir kennaraembætti við Möðruvallaskólann, sem þá var nýstofnaður og hvarf þá heim til fósturjarðar sinnar. Um það leyti, sem hann þjónaði hér sem

prestur var hann bilaður á heilsu að mun, en deyfð og drungi yfir öllu, af því hér var atvinnuleysi og hagur manna fremur þröngur. Fekk hann því lítið að gjört, eins og við var að búast með að rétta við andlegt líf og koma hér söfnuði á fastan fót.

Þess er getið í fyrsta tölublaði Leifs, að haustið 1881, um það leyti, sem Helgi Jónsson lagði á stað í Íslandsferð sína (4. okt.) hafi safnaðarfélag verið að myndast hér með Íslendingum. Hafi það haldist við síðan. En á seinni tíð hafi lítið verið að hafst af ýmsum eðlilegum ástæðum. ,,Síðan 30. júlí síðast liðið sumar (1882) um það leyti að síra Halldór Briem fór heim til Íslands hafa ekki verið haldnir safnaðarfundir, þangað til sunnudaginn 8. apríl 1883. Þá var haldinn safnaðarfundur og kosnir embættismenn fyrir söfnuðinn. Fyrir fulltrúa voru þeir kosnir Sveinn Björnsson, Jón Júlíus, Sigurður Jóhannesson. Fyrir djákna Páll Sigurgeirsson Bardal, Þorsteinn Einarsson, organisti, og Kristrún Sveinungadóttir.'' Sagt er, að á fundinum hafi nokkurir gengið í söfnuðinn. Orsökin til þess, að safnaðarfundir hafi ekki verið haldnir á þessu tímabili hafi líklega verið sú, ,,að um það leyti, sem presturinn fór frá oss í sumar stóð yfir hinn besti og arðsamasti vinnutími ársins og menn voru svo önnum kafnir að nota hann og afla sér eyris og einhver deyfð kom yfir oss, af því andlegan leiðtoga vantaði.'' Húslestrum mun hafa verið haldið uppi á félagshúsinu allan þenna tíma. Og þó ekki hafi þeir sóttir verið sem skyldi, munu þeir þó hér sem oftar í sögu þjóðar vorrar, hafa átt drjúgan þátt í að halda við kristindóminum hjá mönnum og koma í veg fyrir, að þeir yfirgæfu sína lút. feðratrú. Eftir

lestur á félagshúsi Íslendinga var aftur haldinn fundur 22. apríl (1883). Var Sveinn Björnsson þá forseti. Á þeim fundi var safnaðarfulltrúunum falið á hendur að kaupa tólf sálmabækur. Ákveðið var að sunnudagslestrar skyldu fara fram klukkan 3 síðdegis hvern sunnudag og var djáknum gjört að skyldu að sjá um, að engar hvíslingar eða nokkuð, sem gagnstætt væri góðu siðferði, ætti sér þar stað fyrir lestur eða eftir.

Um haustið 21. okt. var aftur fundur haldinn í húsi Framfarafélagsins til að ræða safnaðarmál. Tilefnið til fundarins var það, að síra Jón Bjarnason, sem þá var prestur að Dvergasteini við Seyðisfjörð, hafði skrifað til Winnipeg þess efnis, að hann þyrfti að fá að vita hið fyrsta að unt væri, hvort menn væru hér nú almennt sams hugar og árið 1881, þegar honum var sent köllunarbréf héðan að vestan. Á næsta vori (1884) væri sá tími útrunnin, er hann hefði bundið sig á Íslandi, og þá gæti hann komið vestur, svo framarlega sem það væri eindregin ósk manna. Þegar bréf þetta kom vestur hingað, var tíminn mjög naumur orðinn, til þess hægt væri að senda svar með síðustu póstskipsferð til Íslands. Samt var í skyndi boðað til fundar, en sá fundur varð miklu fámennari en til var ætlast. Menn komu sér því saman um, að skrifa honum á þá leið, að þar svo fáir menn hefðu komið á fund, gætu þeir ekki að svo stöddu sent honum köllunarbréf, en þrír menn voru kosnir til að skrifa honum þess efnis, að þeim, sem fundinn sóttu, sé mjög ant um að hann komi, að þeir vilji taka hann fyrir prest sinn og gjöra alt, sem í þeirra valdi standi, til að hjálpa honum með að reisa hér upp kristinn söfnuð; eftir því, sem þeir þekki hugi manna og áhuga með að fá prest,

geti þeir ekki séð, að það sé nein hætta fyrir hann að koma, því landar hans hér muni bæði hafa vilja og megin til að launa honum sómasamlega; skuli nú þegar tekið til starfa að búa undir komu hans á næsta vori. Mennirnir, er kosnir voru, til að rita honum bréf þetta, voru þeir Friðjón Friðriksson, Árni Friðriksson og Kristján Jónsson. Kveldinu eftir var annar fundur haldinn og bréfið lesið upp, sem þessir þrír menn höfðu stílað. Voru þá fleiri á fundi, svo undirskriftir fengust allmargar undir bréfið.

Í 36. tölublaði *Leifs* (1. árg.) dags. 11. jan. 1884 stendur þessi bréfkafli frá síra Jóni, og er hann úr bréfi rituðu á Seyðisfirði 27. nóv. 1883.

,,Eg sagði formlega af mér Seyðisfjarðar-prestakalli til biskups með síðustu póstferð, svo þér sjáið, að það er afgerður hlutur, að við ætlum að koma á þeim tíma, sem lofað var.''

Seint á vetri (9. mars 1884) var boðað til safnaðarfundar af forseta safnaðarins Sveini Björnssyni til að ræða nauðsynjamál safnaðarins. Segir hann tíma til þess kominn fyrir þá, sem á annað borð ætli að skifta sér nokkuð af safnaðarmálum, að þeir fari að búa sig undir að taka á móti síra Jóni Bjarnasyni, sem eins og öllum sé kunnugt, sé væntanlegur snemma á næstkomanda sumri til þess að gjörast prestur. Bendir hann á í sambandi við nauðsynina, er til þess sé, að prestur komi, að ásigkomulag æskulýðsins í kristilegu tilliti geti naumast á lægra stigi staðið en það sé nú um þessar mundir. Hin uppvaxandi kynslóð sé í voða í kristilegu tilliti, svo framarlega hinir eldri taki ekki rögg á sig í safnaðarmálum.

Hvernig fundur þessi hefir gengið, er ekki hægt

að sjá. En 15. ágúst um sumarið ritar einn af safnaðarmönnum greinarstúf einn um safnaðarmál (Leifur II, 15). Minnist hann þar á áskoran þessa og þykir lítill árangur hafa af henni orðið. Segir hann, að nokkurum sinnum hafi reynt verið að fá fólk í söfnuðinn. Þó séu það að e ns rúmir 130, sem ritaðir séu á safnaðarlistann af öllum þeim sæg Íslendinga, er í bænum sé, og af þeirri tölu séu margir, er standi þar frá fyrri tíð. Spyr hann, hvernig safnaðarfulltrúarnir eigi að semja við prestinn, þegar hann komi, ef ekki séu fleiri, er þurfi hans með eða vilji vera safnaðarlimir. Þegar þetta er ritað, hefir presturinn að eins verið ókominn til bæjarins.

Ekki segir Leifur frá því með einu orði, þegar síra Jón Bjarnason og kona hans koma til Winnipeg, og er það sýnishorn þess, hve skamt blaðamenskan var á leið komin. En á næsta blaði (22. ág. 1884) sést það óbeinlínis, að þá er hann kominn. Er þá boðað til safnaðarfundar ,,næstk. sunnudag til að semja við hinn nýkomna prest, síra Jón Bjarnason, er svo lengi hefir verið eftir þráð, bæði af hinum gömlu safnaðarlimum hans og fleirum. Þá eru allir þeir, sem unna kristilegu siðferði og hafa nokkura tilfinningu fyrir, að nauðsynlegt sé, að hafa ráðvandan, samviskusaman, siðferðisgóðan og andlegan leiðtoga, til að glæða og viðhalda kristilegu siðferði manna á meðal, vinsamlegast beðnir að koma og taka þátt í safnaðarmálum.'' (Um leið er þess getið, að barn eitt átta mánaða gamalt, er þau hjónin höfðu tekið til fósturs, hafi andast alveg nýkomið hingað til Winnipeg).

30. SÍRA JÓN BJARNASON BYRJAR STARF SITT.

Miðvikudaginn 20. ág. flutti síra Jón Bjarnason fyrstu guðsþjónustugjörð í Framfarafélagshúsi Íslendinga og heilsaði þar upp á landa sína. Fólksfjöldinn var svo mikill, að fjöldi manna hlaut að standa, en í húsinu gat setið á þriðja hundrað manns. Prédikun sú, sem hann flutti við það tækifæri er prentuð í Leifi (II, 19, 12. sept. 84) og hefir fyrir texta frásögn Matteusar (17, 1—9) um ummyndun frelsarans á fjallinu og sérstaklega þessi orð Péturs: Gott er, að vér erum hér, herra. Niðurlag ræðu þessarar setjum vér hér:

,,Hvað liggur þá næst að vér gjörum, sem svo oft finst mikið til um myrkur lífsins og dauðans? Og á hverju eigum ver fyrst að byrja, sem höfum í huga að halda hér uppi kristnum söfnuði fyrir oss og landa vora? Á hverju ríður mér mest, sem kominn er hingað í hóp yðar, til þess að flytja yður boðskap kristindómsins, og á hverju ríður yður mest, þér sem hlýðið á prédikun orðsins, á hverju ríður oss, hverjum fyrir sig mest af öllu? Ó, vissulega á því að skerpa trúarsjón vora, svo að vér daglega getum haft hina guðdómlegu dýrðarmynd frelsara vors fyrir sálarsjón vorri. Með dýrðarmynd hans fyrir augum, með lifandi trú á hans guðdóm, væri oss óhætt að líta í einu yfir allar hörmungar mannlífsins, óhætt að horfa fram á hina óteljandi erviðleika, sem við má búast að mæti oss í starfi voru á vegi vorum, óhætt að skoða krossinn, sem hvílir á herðum svo margra, og sem, ef til vill, er búinn hinu veika baki sjálfra vor, óhætt að horfa framan í dauðann í hans ýmsu, ægilegu myndum, óhætt að renna huga vorum inn í eilífðina. Alt það, sem annars er svo voðalegt, ummyndast og fær

dýrðlega mynd, ef vér um leið og vér horfum á það, lítum frelsarann í hans guðdómsmynd. Þá sjáum vér himneska endurlausnarhönd útrétta yfir bæði líf og dauða. Þá sjáum vér myrkrið í gröfum þeirra, sem vér elskum, uppljómað af himneskri birtu. Og þá sjáum vér inn í eilífðina og hvert tár þerrað af augum guðsbarnanna, sem hér hafa grátið, dauðann horfinn, og hvorki harm né vein né mæðu framar vera til.

Með þessum hugleiðingum heilsa eg yður öllum, kæru landar mínir, bæði þeim, sem eg þekki frá því eg áður var í þessu landi og á þessum stöðvum og eins þeim, sem eg hitti nú hér í fyrsta sinni. Eg óska sjálfum mér þess fremur en alls annars, að augu mín verði ávalt opin fyrir því, sem þeir Pétur postuli sáu á fjallinu forðum, til þess að eg eins í stríðu sem blíðu geti sagt við drottin minn: Gott er að vér erum hér, herra; og hins sama óska eg yður öllum af hjarta. Eg óska til drottins, að sá kristni söfnuður, sem vér ætlum hér sameiginlega að byggja upp, og hver einstök sál honum tilheyrandi, hugsi fyrst og síðast um það, að sjá hinn alstaðarnálæga, almáttuga Jesúm í hans guðdómsmynd. Eg óska, að starf vort fyrir kirkju Krists hér eða hvar sem vér dveljum, beri þann ávöxt, að vér í sorg og stríði, þjáningum og dauða getum frá djúpi hjartna vorra tekið undir með postula drottins: Gott er að vér erum hér, herra.“

Að aflokinni guðsþjónustunni auglýsti hann, að hið íslenska kvenfélag í Winnipeg boðaði til bindindisfundar næsta föstudag og að hann flytti aðra guðsþjónustu næstkomandi sunnudag á sama stað; á eftir þeirri guðsþjónustu yrði safnaðarfundur haldinn. Bindindisfundur þessi var haldinn á tilteknum tíma

og stýrði síra Jón honum fyrir hönd kvenfélagsins. Gengu þá um þrjátíu manns í bindindisfélagið, en flest voru það konur, að eins sjö karlmenn. Mun þá hafa verið æðimikið um nautn áfengis með Íslendingum og ekki vanþörf á, að til bindindis væri stofnað, en áhuginn ekki mikill fyrir því, eins og oft vill verða, þegar svo er ástatt. Næsta sunnudag var guðsþjónusta aftur haldin og voru þá tilheyrendur engu færri en hið fyrra skiftið. Að því búnu var safnaðarfundur haldinn og voru þá 46 innritaðir í söfnuðinn; áður voru safnaðarmenn 137 og með þessari viðbót 183. Fóru þá vonir margra, sem daufir höfðu verið í voninni um framtíð safnaðarins, að verða nokkuð stæltari. Aftur var safnaðarfundur haldinn 26. ág. Þar voru voru tvær nefndir kosnar, önnur til að yfirfara safnaðarlögin, en hin til að semja við Framfarafélagið um að fá húsið lánað svo oft sem söfnuðurinn þarf með. Á fundinum var fyrsta tilraun gjörð með að fá ákveðin loforð frá mönnum um gjald til safnaðarþarfa; gekk það svo vel, að á lítilli stundu fengust 152 doll. og voru þegar af því borgaðir um eða yfir 30 doll. Til þess að sýna, að nú var ekki legið á liði sínu með að safna fólkinu inn í söfnuðinn, skal þess getið, að safnaðarfundur var enn haldinn 31. ág. og bættust þá 130 sálir í söfnuðinn, svo nú var tala safnaðarlima farin að færast upp á fjórða hundraðið. Á þeim fundi skýrði Páll Sigurgeirsson frá því, að embættismenn safnaðarins hefðu samið við prestinn um að þjóna fyrir 1,000 doll. laun um árið og eins hefðu samningar tekist við Framfarafélagið um lán á húsi þess. Voru samningar þessir samþyktir athugasemdalaust. Síðan var rætt um fyrirkomulag á guðsþjónustum á sunnudögum og

vildu þá flestir laga tíðareglurnar nokkuð eftir því, sem títt er í innlendum kirkjum. Hafði síra Jón komið með hempu sína með sér frá Íslandi og verið í henni við fyrstu guðsþjónustuna. En meginþorri safnaðarins kunni því illa og vildi hafa prest sinn hempulausan og lét síra Jón það eftir mönnum. Komu fram í þessu áhrifin, sem menn höfðu orðið fyrir í kirkjulegu tilliti við að ganga allan þann tíma, sem prestslaust hafði verið, í innlendar kirkjur. Alt gekk mjög friðsamlega til á fundum þessum og var þó naumast hægt að segja það um alla fundi, sem haldnir voru í Winnipeg um þetta leyti. En alt benti á, að starfsemi manna í safnaðarmálum ætlaði að verða í einum huga og samkomulagið gott. Það var einnig ályktað á fundi þessum, að íslenskum ungmennum skyldi veitt kristindómsfræðsla tvisvar í hverri viku frá því klukkan 9 að morgni og þangað til um hádegi. Sömuleiðis, að sunnudagsskóli skyldi haldinn á hverjum sunnudegi og byrja kl. 3 síðdegis. Alt fór þetta fram í húsi Framfarafélagsins.

En þar sem síra Jón var nú eini presturinn norðan landamæranna, varð hann að hugsa um fleiri en Íslendinga í Winnipeg. Laugardaginn 20. sept. hér um bil mánuði eftir að hann kom, tókst hann á hendur ferð ofan til Nýja Íslands. Ferðaðist hann frá Selkirk norður að Möðruvöllum við Íslendingafljót með *Victoria*, gufubát þeirra Sigtryggs Jónassonar og Friðjóns Friðrikssonar og var sólarhring á leiðinni. Fimtudaginn 25. sept. hélt hann guðsþjónustu undir berum himni í inndælu veðri milli skógarrunna skamt frá Möðruvöllum og voru þar flestir Fljótsbúar samankomnir. Var þar talað um myndun reglulegs safn-

aðar og nefnd manna kosin til að gangast fyrir því. Var þar um það leyti langfjölmennasta bygðin, því útflutningur hafði þar langminstur verið. Bra ðrasöfnuður, sem þar var, hafði legið í dái, en nú álitu menn réttast, að reisa hann við aftur. Frá Íslendingafljóti fór síra Jón suður eftir Nýja Íslandi endilöngu, að mestu leyti fótgangandi og hafði guðsþjónustusamkomu með fólki á þessum stöðum: að Reykjum í Breiðuvik 26. sept., í Árnesi, norðantil í Árnesbygð 27., á Gimli sunnudaginn 28., en sama dag að kveldi í samkomuhúsi Víðinesbygðar við Víðiá, og hinn 29. á Bólstað, um leið og hann staðfesti skírn á nokkurum börnum. En svo varð hann að bíða á Gimli nærri því viku eftir gufubátnum *Victoria* og fór loks á opnum báti upp til Selkirk, en flutti þó prédikun á Gimli s.d. 4. okt. áður en hann fór. Hann skírði og staðfesti skírn á ekki færri en 25 börnum í nýlendunni. Hvatti hann Ný-Íslendinga þá til þess að koma safnaðarmálunum í það horf, að þeir sem fyrst gætu haft prest út af fyrir sig, þar sem sú þjónusta, er prestur Winnipeg-safnaðar gæti veitt þeim, gæti ekki orðið nema ofurlítil upphvatning til safnaðarmyndunar.

### 31. FRAMFARAFÉLAGIÐ.

Vér höfum hér að framan sagt frá myndun félags þess í Winnipeg, er Íslendingafélag nefndist, í 9. kafla ritgjörðar þessarar. Og fyrir starfsemi félagsins fyrst framan af var leitast við að gjöra nokkura grein í 10. kaflanum. Þá er líka sýnt fram á, hvernig félag þetta breytti um nafn og kallaði sig Íslenska þjóðfélagið. Má um það og starfsemi þess lesa í 16. kaflanum. En það átti enn fyrir félagi þessu að liggja að skifta

um nafn. Þriðja en þó ekki síðasta nafnið, sem það hlaut, er Framfarafélag Íslendinga í Winnipeg.

Sveinn Björnsson (Péturssonar), sem um þessar mundir var einn hinna helstu Íslendinga í Winnipeg, ritar um félagið í 5. tölublaði *Leifs*. Tekur hann þar fram, að félagið eigi tildrög sín í sams konar félagsskap, er myndast hafi í Milwaukee 1874, eins og þegar hefir sagt verið, og hafi aðaltilgangurinn verið að viðhalda íslensku þjóðerni hér í Vesturheimi. Fyrsti fundargjörningur félagsins í Winnipeg sé skráður 6. sept. 1877 og hafi þá embættismenn verið kosnir. Hafi félagið haldið uppi sunnudagalestrum og uppfræðslu barna. Þá hafi það Íslendingafélag heitið. Næsti fundargjörningur sé skráður 11. ág. 1878. Þar standi, að hið íslenska þjóðfélag hafi haft fund með sér og í fundargjörningum, sem skráðir séu frá því tímabili til 1879 og 1880, sé það ýmist kallað „Þjóðfélag Íslendinga í Vesturheimi" eða „Íslendingafélag í Winnipeg." Þykja honum þessir fundargjörningar bera það með sér, að félagsmenn hafi haft litla hugmynd um meðferð á málum, en að þeir hafi gjört sér meira far um að halda sem lengstar tölur *persóuulega* hver um annan, en að halda sér að einhverju ákveðnu efni. Flestir skrifarar félagsins á þessu tímabili hafi bókað svo ógreinilega gjörðir fundanna, að torvelt sé að komast að niðurstöðu um, hvað gjört hafi verið á fundum. Á þessu tímabili hafi félagið átt örðugt uppdráttar, því Íslendingar voru mjög fátækir um þær mundir og félagsmenn áhugalitlir. Enda hafi þeir ýmist verið að fara frá Winnipeg eða koma þangað. Hafi því oft orðið fundarföll svo mánuðum hafi skift.

Þess vegna hafi lítið legið eftir félagið og starf þess í þarfir almennra framfara hafi fremurlítið orðið.

Árið 1878 hafi Helgi Jónsson komið til Winnipeg og gjörst meðlimur félagsins. Vildi hann þegar, að félagið starfaði meira og léti meira til sín taka um almenn mál. Hafi hann fyrstur manna hreyft því, að félagið keypti sér bæjarlóð og kæmi sér upp húsi. En að því hafi lítill rómur verið gjör. Sumarið 1880 hafi hann keypt fyrstu bæjarlóð og selt hana aftur með töluverðum ágóða. Sumarið 1881 hafi honum græðst svo fé, að hann hafi gefið félaginu bæjarlóð með því skilyrði, að það léti þegar reisa hús á henni. Hafi þá allir tekið drengilegan þátt í húsbyggingunni, bæði félagsmenn og utanfélagsmenn. Fyrsti fundurinn í nýja húsinu hafi verið haldinn 10. júlí 1881 og hafi þar verið um hundrað Íslendingar saman komnir. Hafi sá fundur þakkað Helga Jónssyni gjöfina með miklum virktum. Fyrstu grundvallarlög félagsins, sem rituð finnist, séu dagsett árið 1881 og hafi öðlast gildi 6. maí sama ár. Þar sé félagið nefnt „Framfarafélag Íslendinga í Vesturheimi"; hafi það nafn haldist síðan. Þá hafi Jón Ólafsson, skrifari, tekið að bóka fundargjörninga félagsins; hafi hann gjört það miklu greinilegar og betur en áður hafi átt sér stað og um leið gefið mönnum fyrst hugmynd um, hvernig rita skuli fundargjörninga. Veturinn 1881—2 hafi félagið haldið uppi íslenskum barnaskóla. Þar hafi kent verið skrift og reikningur, enska og íslenska ásamt fleira. Sama veturinn hafi félagið keypt organ og haldið ýmsar skemtisamkomur. Það hafi átt í sjóði 24. nóv. 1881 $109, en skuldir, sem á því hafi hvílt, hafi numið $123. En 24. nóv. 1882 hafi það átt

$83 í sjóði, en skuldað $136. Nú eigi félagið í sjóði um $70 en sé að eins í $49 skuld. Húsið, sem það hafi reisa látið, og lóðin, er það standi á, sé nú $2,000 virði. Störf félagsins á þessu tímabili hafi mest verið í því fólgin, að halda uppi barnakenslu, sunnudagalestrum, og hjálpa nauðstöddum. Það hafi líka hjálpað áfram öllum fyrirtækjum, er til framfara hafi miðað og félagsskapar, að svo miklu leyti sem ástæður hafi leyft.

Þetta er fyrsta tilraunin, sem gjörð hefir verið til að segja sögu félagsins, og höfum vér því rakið efni ritgjörðar þessarar nokkuð nákvæmlega til stuðnings því, sem sagt hefir verið hér að framan um félag þetta.

Það má nærri geta, að það hafi verið heilmikill viðburður í félagslífi Íslendinga í Winnipeg, þegar þeir eignuðust hús til að halda fundi sína og samkomur í. Enda fer þá fyrst að færast fjör í félagið. Í félagshúsinu var mörg hildi háð. Þar leiddu menn saman hesta sína út af öllum hlutum milli himins og jarðar, og þar áttu öll íslensk félög, hverju nafni sem nefndust, sjálfsagðan griðastað. Þar héldu menn skemtisamkomur og dansa. Þar hélt Gróðafélagið fundi sína og þá var mörg svo mögnuð og flókin ræðan haldin, að þeim varð dimt fyrir augum, sem lítilsigldir voru.

En brátt varð sú raunin á, að húsrúmið varð alt of lítið, því stöðugt mun Ísfendingum hafa fjölgað í bænum. Fór þá að verða almennur áhugi fyrir því að stækka húsið, svo það fullnægði kröfum manna, en til þess fundu menn sig naumast færa efnalega. Í janúarmán. 1884 ritaði Vilhelm Pálsson, sem var þá fyrir

skömmu kominn frá Íslandi, áskorun til Íslendinga í *Leifi* um að hrinda máli þessu áleiðis og telur það hið mesta nauðsynjamál; bendir hann á ýms ráð, sem hafa megi til að ná fé saman í þessu augnamiði. Stundum bar það við, að deilur risu upp út af félagshúsinu, þótt lítið væri um tilefni. Fundur var til dæmis haldinn þar 10. jan. 1884 út af láni á húsinu til Helga Jónssonar Þótti sumum húsið hafa lánað verið í þetta sinn á ,,ólöglegan hátt.''—,,Í máli þessu, fuku tölur með slagbyljum, en af því flestir álitu og allir vissu, að það það hefði verið gjört í góðri meiningu, þá lyktaði það með logni og friði og lagðist undir samlyndi''.

Eitt af verkefnum félagsins var að hjálpa nýkomnu fólki íslensku. Sumarið 1883 kom margt fólk frá Íslandi. Var því auðsýnd margs konar hjálp á ýmsan hátt af Íslendingum, sem fyrir voru. Átti íslenska kvenfélagið þar góðan hlut að máli. Það varði ágóðanum af kveldverðarsamkomu einni, sem það hafði haldið, til að hjálpa nýkomnu fólki og nam sá styrkur einum 56 doll. Í almennum samskotum höfðu komið inn 32 doll. í peningum og 31 doll. í matvöru; frá fyrra ári var til einhver ofurlítill vesturfarasjóður og var honum bætt við þessi samskot. Með þessu móti komu saman $123.18. En fjöldi af fólki hafði ekki haft neitt fé til að komast frá Winnipeg og ofan til Nýja Íslands, af þeim, er frá Íslandi komu þetta sumar. Stóðu um 37 doll. eftir af þessum ferðakostnaði. Tók nú Framfarafálagið að sér að borga fé þetta, en vildi ekki taka af félagssjóði til þess, svo stofnað var til hlutaveltu í því skyni, Baldvin Baldvinsson var um þetta leyti forseti félagsins. Var hann

kosinn í nefndina og með honum Eyólfur Eyólfsson, „mjólkurverslunarmaður og Kristrún Sveinungadóttir, kvenfélagshetja", eins og *Leifur* kemst að orði.

Hús Framfarafélagsins stóð á *Jemima* stræti, sem þá var kallað, nú *Elgin ave.*, og var nr. 137. Sumarið 1884 var það stækkað að mun og smíðaðir í það nýir bekkir; kostaði það allmikið fé, en var líka stórmikil umbót. Einkum kom meira og hentugra húsrúm sér vel, þegar síra Jón var kominn til sögunnar og söfnurinn tók að starfa. Mundi þá hafa orðið töluvert erviðara viðfangs fyrir söfnuðinn, ef Framfarafélagið hefði ekki verið búið að búa neitt í haginn. Um sumarið 24. júlí var fundur haldinn í Framfarafélaginu, sem þótti býsna sögulegur. Þá var maður sá kominn til Winnipeg, er Frímann B. Anderson (Bjarnason Arngrímssonar frá Vöglum á Þelamörk) nefndist. Mun hans síðar getið verða. Á fundi þessum bar Páll Sigurgeirsson, sem þá var einn af helstu mönnum í hópi Íslendinga í Winnipeg, upp þá tillögu, að Frímanni væri veitt málfrelsi á fundinum, eins og þó hann væri félagsmaður. Flutti hann þar ræðu heilmikla um félagsskap. „Sýndi hann fram á, hversu Framfarafélagið væri ófullkomið og hve mikil fáviska það væri fyrir jafnfáa menn, að hugsa sér að geta gjört mikið gagn til almennings heilla." Vildi hann helst, að Framfarafélaginu væri snúið upp í verkamannafélag. Þótti þetta hörð ræða og voru margar athugasemdir við hana gjörðar. Loks var fimm manna nefnd kosin til þess að íhuga, hvort réttara væri að breyta nokkuð til um stefnu og verksvið félagsins, af því ýmsir höfðu ótvíræðilega í ljós látið, að félagið væri stefnulaust. Frímann hefir víst samt verið farinn að örvænta þess,

að þessi tillaga hans mundi bera nokkurn heillavænlegan árangur þegar áður en fundi var slitið, því hann baðst þess, þegar búið var að kjósa nefndina, að málinu væri vísað frá aftur. En það vildu menn ekki. Ritstjóri *Leifs* hefir verið einn af þeim, sem tóku sér það allnærri, að félagsskapur þessi skyldi stefnulaus kallaður. Hann ritar all-langa vörn í blað sitt fyrir hönd félagsins. Hann sýnir fram á, hvernig menn hafi barist áfram með félagsskapinn, fyrst í leiguhúsum og orðið að hrekjast stað úr stað ,,eins og reykur í lofti'', þangað til félagið eignaðist lóð og braust í því að láta reisa þar hús. Að því búnu hafi organ verið keypt, er kostað hafi 200 doll. Barnaskóli hafi haldinn verið í húsinu í tvo vetur að tilhlutun félagsins. Það hafi líka gjört sér að skyldu að hjálpa veikum og nauðstöddum Íslendingum bæði hér og víðar. Eitt sinn hafi það sent túlk á móti vesturförum og kostað til þess ærnu fé. Stúlku einni hafi það gefið 60 doll. til að læra organslátt, svo félagið gæti haft gagn af organinu. Svo hafi ýms önnur félög myndast út af Framfarafélaginu, er haft hafi mikla og góða starfsemi með höndum. Kvenfélagið eigi tilorðning sína Framfarafélaginu að þakka og það starfi nú ótrauðlega í sömu átt, að ,,almenningsheillum þjóðar sinnar.'' Hið sama sé að segja um Söngfélagið, ,,er nú æfir sig í hinni fögru söngíþrótt, sem lofuð er um allan heim, þegar hún er vel numin''; það hafi myndast vegna þess, að Framfarafélagið hafi áður verið til.

En til er fundabók Framfarafélagsins, sem vér höfum komist yfir. Nokkuð er framan af henni rifið og fyrsti fundargjörningur, sem hægt er að sjá dagsetning á, er eftir fund, sem haldinn var 30. mars

1882. Heldur bók þessi yfir fundi félagsins áfram þangað til 22. nóv. 1883; þá er síðasti fundargjörningur dagsettur. Er bók þessi auðvitað helsta heimildarritið að sögu félagsins yfir þann tíma, sem hún nær. Snemma á árinu hefir félagið verið að hugsa um að kaupa prentsmiðju *Framfara* að prentfélagi Nýja Íslands í því skyni að koma upp blaði. Hefir Árna Friðrikssyni verið falið á hendur að komast eftir, með hvaða kjörum hægt væri að fá kaup á henni. Lætur hann félagið vita, að prentverkið sé hægt að fá til kaups fyrir 450—500 doll. Um þetta leyti var Sigtryggur Jónasson, kapteinn, síðar ritstjóri Lögbergs, forseti félagsins. Töluvert var talað um stofnun bindindis og álitu flestir, að best væri að mynda nýtt félag, sem hefði það mál með höndum, og gæti Framfarafélagið styrkt það með ráði og dáð, en einkum með því að lána því hús sitt. Þegar Framfarafélaginu bárust fregnir af einhverjum, sem veikur var eða hjálparþurfi, vildi það ætíð hjálpa. Egill nokkur Guðbrandsson hafði um þetta leyti komið til bæjarins, og var orð á því, að hann væri geðveikur. Um leið og fregn kom um það inn á Framfarafélagsfund var farið að tala um að hjálpa honum. Þau Eyólfur Eyólfsson og Kristrún Sveinungadóttir lögðu þegar fram peningagjafir, hann fimm doll. og hún einn. Farið var nú að tala heilmikið um að kaupa nýja lóð og efna til nýrrar húsabyggingar, en selja húsið og lóðina; þótti húsið of lítið. Bauðst kvenfélagið til að gefa 50 doll. til nýrrar húsbyggingar með því skilyrði, að það fengi að hafa þar fundi sína.—Félagið hélt ársfund sinn 25. maí 1882 og var það kjörfundur. Voru þar kosnir þessir embættismenn: Björn Jónsson, for-

seti; Kristján Jónsson, varaforseti; Sveinn Björnsson, skrifari; Jón Ólafsson, varaskrifari; Árni Friðriksson, féhirðir; Eyólfur Eyólfsson, varaféhirðir; Magnús Pálsson, siðagætir; Jón Júlíus, varasiðagætir; Jón Björnsson, bókavörður, og Þorsteinn Einarsson, varabókavörður. Gengu 46 karlar og konur inn í félagið á þessum fundi. Á þessum fundi var síra Halldór Briem og lagði hann það til, að lög félagsins væru lesin upp og var það gjört. Væri réttast að setja þau hér, en vér látum það þó ógjört rúmsins vegna. En getið skal þess, að fyrsta grein félagslaganna ákveður, að nafn félagsins skuli vera „Framfarafélag Íslendinga í Vesturheimi", en önnur greinin, að tilgangur félagsins skuli vera „að efla eftir megni alt það, sem er og getur orðið Íslendingum til framfara í heimsálfu þessari. — Meðal eigna félagsins var dálítið bókasafn; voru það víst eingöngu íslenskar bækur og blöð. Var samþykt á fundi 1. júní 1882, að félagsmenn skyldu koma saman einhvern ákveðinn dag í viku til að lesa blöð og bækur félagsins og skyldi þá bókavörður vera viðstaddur. Á þessum fundi átti félageið $118.17 í sjóði. Nefnd var kosin til að selja eignir félagsins, en henni varð ekkert ágengt, enda hafði síra Halldór Briem nú verið ráðinn af söfnuðinum til þriggja mánaða og voru menn ófúsir að selja meðan á því stæði. — Þá var upp komið enn eitt félag, sem bað um húsið til að halda í fundi sína; var það félag íslenskra unglinga í Winnipeg. Lagði það fram 10 doll. gjöf í þenna nýja byggingarsjóð. En æðimiklar deilur risu út af því, hvort lána ætti *börnum þessum* húsið. Þótti sá félagsskapur óþarfur og varhugaverður. Aftur var af öðrum bent á, að ekkert væri að hafst af börnum

þessum, er menn þyrftu að hafa nokkurn ama á. Tilgangurinn væri einmitt, að koma í veg fyrir strákskap og slæmt siðferði með hinum uppvaxandi æskulýð. Seinast var samþykt að lána þeim húsið. Langt þref varð á milli félagsins og Þorsteins Einarssonar, organista, um spilamenskuna á organið. Hann gjörði ekki kost á sér nema fyrir borgun, en gaf lengi ekki uppskátt fyrir hvað hann væri fáanlegur. Loks eftir mörg fundahöld gjörði hann kost á sér fyrir 8 doll. um mánuðinn með því móti, að hann hefði meira vald yfir organinu en nokkur annar. En þetta kaup þótti flestum félagsmönnum ofhátt. Félagið lánaði Gróðafélaginu hús sitt fyrir $2.50 fyrir kveldið. Um þetta leyti (22. júní) hreyfði Kristrún Sveinungadóttir því á félagsfundi, að þar sem bóluveikin væri nú sögð komin til bæjarins, ætti Framfarafélagið að gangast fyrir því, að menn létu alment bólusetjast eins fljótt og unt væri. Eins vildi hún, að þeir sem komist hefðu í skuld við stjórnina niðri í Nýja Íslandi færu nú að reyna að losa sig við þær skuldir, þar sem nú væri töluverð atvinna í bænum og tækifæri til að afla sér fjár fyrir þá, sem ekki væru ónytjungar. — Félagið lánaði söngfélaginu hús sitt gegn því, að það héldi uppi söng og hljóðfæraslætti á sunnudögum og öðrum samkomum félagsins.

Um þessar mundir voru það einkum þrjú mál, sem Framfarafélagið stöðugt er að fjalla um á fundum sínum. Hið fyrsta af málum þessum og það af þeim, sem stóð Framfarafélaginu næst, var húsbyggingarmálið. *Gamla* félagshúsið var orðið oflítið, þótt enn væri það í raun og veru ekki nema svo sem ársgamalt. Svona hafði Íslendingum fjölgað í bænum og félagsskapurinn dregið þá saman. Vildu menn því helst af

öllu selja eignina og kaupa einhvers staðar blett, á hentugum stað í bænum, þar sem reisa mætti nægilega rúmgott hús, svo það fullnægði öllum félagsþörfum Íslendinga í bænum. Hið annað áhugamál var safnaðarmálið. Framfarafélagið skoðaði það sem eitt hið mesta velferðarmál Íslendinga og vildi að því hlynna á allar lundir. Nú voru allar líkur til að rætast færi fram úr í þeim efnum. Síra Jón Bjarnason var þá og þegar væntanlegur. En þá sáu allir, að söfnuðurinn mundi verða í vandræðum með húsrúm, þar sem hús Framfarafélagsins var alt of fítið. Þriðja áhugamál félagsins var stofnun íslensks blaðfyrirtækis. Voru flestir félagslyndir Íslendingar þess mjög fýsandi, því menn fundu sárt til þess, hve dauft það var, að vera hér blaðlaus og geta hvorki látið stunu né hósta til sín heyra. Ef það kæmist á fót, var hugmyndin sú að láta það hafa byggistöð sína í húsi félagsins. En þá þurfti það að vera miklu stærra en það var nú.

Nefndir voru kosnar í húsbyggingarmálinu og blaðmálinu, sem áttu að hrinda þeim áfram eftir föngum. Nefndin í blaðamálinu leitaði fyrir sér út um nýlendur til að komast eftir áhuga manna með nýtt blað íslenskt, er út væri gefið í Winnipeg. Fann hún hvarvetna áhuga allmikinn hjá bændum og vilja til að kaupa, en mjög mikla áherslu lögðu menn hvarvetna á, að heppilegur ritstjóri fengist. 13. júlí 1882 var fjölmennur fundur haldinn í máli þessu og langar ræður og skorinorðar fluttar. Þá lagði Magnús Pálsson það til, að Friðrik Bergmann væri fenginn til að taka að sér ritstjórn þessa fyrirhugaða blaðs og að nefndinni væri á hendur falið að skrifa honum og fara þess á leit við hann. Fekk það allgóðan byr á fund-

inum og var samþykt. Samt er þetta ekki til lykta leitt fyrr en á næsta fundi, sem haldinn var 20. s. m. Virðist Helgi Jónsson hafa verið þessu fremur mótfallinn. Þó var þetta samþykt þá aftur.—Á fundi 24. ág. er skýrt frá því af hálfu húsbyggingarnefndarinnar, að loforðin, sem fengist hafi í því augnamiði, séu alls 195 doll. Af því hafi 45 doll. verið borgaðir í peningum. Annan dag septembermánaðar hélt félagið samkomu til að hafa fé saman til húsagjörðar. Var aðalatriðið á þeirri samkomu teningskast um tvo hluti, sem keyptir voru. Ágóðinn sýnist hafa orðið 30 doll. 75 cents. Á fundi 5. október., áður en þessir peningar voru afhentir, skýrir féhirðir frá, að tekjur félagsins hafi verið $265. 45, útgjöld $189.04, en í sjóði samkvæmt því $67.41. En af þessari upphæð væru $55 lán og gjafir til húsbyggingarinnar, svo eiginlega ætti félagið að eins í sjóði $12.41, en væri í skuld um $100. Það kom í ljós á fundi þessum, að nefndirnar, sem kosnar höfðu verið í einum fimm málum, höfðu alls enga skilagrein gjört og alls ekkert starfað; enda voru þeim miklar ákúrur gefnar. En síðar gjörði nefndin í blaðmálinu þá grein fyrir aðgjörðaleysi sínu, að þar sem útséð væri um, að nokkuð yrði af húsbygging félagsins þetta ár, sæi hún engin tök til, að blaðfyrirtækið gæti komist á. Hefði hún af þessum ástæðum ekkert hreyft því máli.

Þegar vetur gekk í garð, var aftur farið að hreyfa því, að Framfarafélagið ætti eins og að undanförnu að sjá um, að kensla færi fram fyrir íslensk ungmenni. Veturinn 1881—82 hafði það kostað $232.50 til þessarar barnakenslu. Höfðu 7 doll. verið í sjóði, þegar þeirri kenslu var hætt, því samskotum í því augna-

miði hafði verið haldið sér. Félagið gat nú fengið tvo kennara fyrir 70 doll. um mánuðinn báða. Samþykt var á fundi 16. nóv. 1882 svolátandi reglugjörð fyrir þetta skólahald:

,,Framfarafélagið skal hafa alla umsjón á skólanum með eftirfylgjandi skilyrðum.

1. Ákveðið sé, að aðstandendur barnanna leggi $2.00 með barni hverju um mánuðinn, er greiðist fyrir fram mánaðarlega og leggi þeim til skriffæri og skólabækur.

2. Félagið kjósi nefnd, sem ráði kennara, ákveði námsgreinir, er kenna skuli, sjái um að þær séu kendar, haldi alla reikninga skólans og skýri fél. frá ástandi hans svo oft sem þörf gjörist. Nefndin ráði kennara fyrir svo lágt kaup, sem kostur er á og um leið þá, sem hún álítur hæfasta.

3. Kennarar séu ráðnir til eins mánaðar í senn en ekki lengri tíma.

4. Komi ekki nema tuttugu til tuttugu og fimm á skólann, ráði nefndin ekki nema einn kennara, en verði þau fleiri, ráði hún tvo. Skóli sé ekki byrjaður með færri en 15 börnum.

5. Hver, sem veit af munaðarlausum börnum og fátækum, sem þurfa að ganga á skólann, en geta ekki borgað hið ákveðna mánaðargjald, snúi sér til nefndarinnar, og veiti hún börnunum inngöngu á skólann. En Framfarafélagið sjái um, að afla peninga til að borga fyrir þau með, til dæmis með hlutaveltu, kveldverðarsölu, sjónarleik eða öðrum arðberandi samkömum.

6. Félagið sjái um allan útbúnað í húsinu, en

skólanefndin ásamt kennurunum sjái um góða umgengni í því, þegar skóli er.

7. Skólamálið sé rætt á hverjum Framfarafélags fundi, hve nær sem vera skal, ef þörf þykir. Skólinn standi eins marga mánuði og þurfa þykir og félagið ákveður eftir ástæðum. Skólahaldið skuli byrjað eins fljótt og unt er."

Á kjörfundi félagsins, sem haldinn var 23. nóvember 1882, sýndu reikningar félagsins, að innkomið var í húsbyggingarsjóðinn $86.25. Skuldir félagsins námu 136 doll. og var það aðallega fyrir organið. Að öðru leyti voru eignir félagsins virtar svo: Lóðin $1,000, húsið $800, organið $250, ofn og bekkir $50. Kvaðst virðingarnefndin álíta, að félagið ætti $2,000 um fram skuldir. Í félagið rituðu sig á fundinum 41 fyrir næsta kjörár, karlar og konur. Þessir voru kjörnir embættismenn fyrir næsta kjörtímabil: Forseti Magnús Pálsson, skrifari Sveinn Björnsson, féhirðir Árni Friðriksson, siðagætir Páll Sigurgeirsson, bókavörður Jón Jónsson. Á nýársdag 1883 hélt félagið kveldverðarsamkomu; kostaði 50 cts fyrir hvern fullorðinn, en 25 cts fyrir börn innan 15 ára. Börnum þeim og unglingum, sem gengu á skóla Framfarafélagsins, var boðið til kveldverðarins án endurgjalds. Hve margt hefir á skólanum verið, sést ekki, en svo margt var það, að tvo kennara varð að ráða.—Síðast liðið sumar (1882) gjörði Framfarafélagið út mann austur til Toronto til að mæta íslenskum innflytjendum og leiðbeina þeim vestur. Voru sérstök samskot tekin í því augnamiði og námu þau $160. Mest af þeirri upphæð gekk í ferðakostnað þess, er sendur var, eins og við var að búast, en nokkuru af þessum peningum var

varið til hjálpar fólkinu. Mikill rekstur var í félaginu gjör veturinn 1883 út af fé þessu og reikningum; var út af því eytt mörgum orðum og stundum svo heitt á fundum, að slíta varð, sökum óreglu. Yfirleitt hefir verið nokkuð gjóstugt og stormasamt í félaginu vetur þenna. Þau tvö aðalmál, sem félagið hafði með höndum, húsbyggingarmálið og blaðfyrirtækið, voru of erfið og umfangsmikil til þess að félagið að svo stöddu gæti færst þau í fang. Eina málið, sem félagið starfaði að, var barnakenslan og sýnast allir hafa verið ánægðir með hana. Töluvert mörg börn og unglingar virðast hafa tekið þátt í henni um veturinn, svo ráða varð tvo kennara, þegar fram í sótti. Magnús Pálsson var fyrir kenslu þessari og þótti víst alment honum farast hún prýðilega úr hendi. Honum til aðstoðar við kensluna var Stefán Pálsson, sem þetta ár var lengi skrifari félagsins og fært hefir allmarga fundargjörninga til bókar, þegar Sveinn Björnsson hætti, eftir að hafa um langan tíma gegnt þeim störfum sérlega vel.

Sumarið 1883 var kjörfundur haldinn í júní. Til forseta var þá kosinn Baldvin Baldvinsson, til skrifara Sveinn Björnsson, til féhirðis Árni Friðriksson, til siðagætis Arngrímur Jónsson, til bókavarðar Jón Jónsson (Björnssonar), til varaforseta Sigurbjörn Stefánsson, til varaskrifara Stefán Pálsson. Helsta málið, sem félagið hafði með höndum um sumarið (1883), var að leiðbeina og liðsinna fólki, er þá kom frá Íslandi. Var Baldvin Baldvinsson til þess kjörinn að hafa umsjón á hendi yfir þessu; gjörir hann glögga skilagrein fyrir þessari frammistöðu sinni á fundi, sem haldinn var 4. okt., og hefir þess hér að framan

getið verið. Síðast á árinu virðist mest hafa verið talað um ný lög fyrir félagið og fundarreglur. Í fundarbók þeirri, sem vér höfum fyrir oss, er síðasti fundargjörningur dagsettur 22. nóv. og er hann til bókar færður af Stefáni Pálssyni.

Vér höfum nú gefið nokkurn veginn greinilegt yfirlit yfir sögu Framfarafélagsins frá því í byrjun ársins 1881 og til ársloka 1883. Félagið virðist hafa verið í blóma sínum framan af þessu tímabili og mikill fögnuður yfir félagsskapnum með þeim, sem í honum voru. En er fram í sótti, fóru mál félagsins að eyðast; framkvæmdaraflið var svo lítið, en verksviðið, sem félagið vildi breiða sig út yfir, svo víðlent og takmarkalítið. Þá fara menn að þreytast eins og gengur, samlyndið ekki að verða eins gott, deilur rísa upp út af litlu efni eða engu, sundrung og flokkadráttur að verða miklu meiri. Enda dofnar þá áhuginn með félagsskap þenna æ meir og meir, svo að á kjörfundi í júní 1883 eru ekki félagsmenn fleiri en 23, bæði konur og karlar.

En árið 1884 virðist aftur hafa glaðnað yfir félaginu ofurlítið. Vilhelm Pálsson, bróðir Magnúsar, ritaði eins og áður er sagt, áskorun í *Leif* þegar 11. janúar til félagsmanna og allra Íslendinga í bænum yfirleitt, að taka rögg á sig og stækka húsið. Virðast menn þá hafa verið frá því horfnir að selja eignina, líklega vegna þess, að ekki hefir fé fengist fyrir hana eins mikið og félagið vildi. En um sumarið '84 var húsið stækkað til mikilla bóta og varð félagið að hleypa sér í töluverðar skuldir til þess. Mun sú breyting, er þá varð á safnaðarmálum og sagt er frá hér að framan, einkum hafa rekið félagið til þess. En með því var heilmikið unnið að framförum Íslendinga

í bænum og að líkindum betur en með nokkuru öðru, sem hægt hefði verið að gjöra. — Um vorið, á sumardaginn fyrsta, hélt félagið skemtisamkomu í húsi sínu til að fagna sumrinu, eftir góðum og gömlum íslenskum sið, og var sú samkoma vel sótt.

Framfarafélagið er langhelsti félagsskapurinn með Íslendingum fram að þessum tíma eða til ársloka 1884. Það stendur á almennum grundvelli og leitast við að hlynna að öllu, er til framfara megi horfa með þjóð vorri hér í álfu. En upp frá því fer sól þess að síga í æginn. Því þá rís safnaðarfélagsskapurinn upp og verður hinum svo miklu öflugri. Og þó söfnuðurinn hefði miklu þrengra verksvið að vissu leyti, tók hann þó samt flest af þeim málum að einhverju leyti að sér, sem Framfarafélagið hafði hingað til haft afskifti af og nokkuð var hægt við að gjöra. Líka hefir það eflaust verið því að kenna, að þegar menn fóru fyrir alvöru að hugsa um safnaðarmálin, var hugur manna svo heillaður af þeim, að þeir mistu áhugann á Framfarafélaginu og þeim málum, er það með réttu hefði átt að reka.

## 32. KVENFÉLAGIÐ.

Sumarið 1881, þegar mest fjörið var í öllu, þegar kappið í fasteignaversluninni var sem mest, þegar allir létu sig dreyma þann fagra draum, að það ætti fyrir þeim að liggja að verða meira og minna auðugir menn, þegar Framfarafélagið eignaðist blett í bænum, sem það gat látið reisa hús á, stofnuðu nokkurar íslenskar konur nýtt félag, sem þær auðvitað nefndu kvenfélag, til aðgreiningar frá öllum karlfélögum. Í septembermánuði stofnuðu fáeinar konur íslenskar til hlutaveltu.

Varð ágóðinn af henni $64. Þessa upphæð gáfu þær Framfarafélaginu til húsbyggingarinnar. Litlu síðar, nálægt 1, okt., eftir því sem sagt er frá í 5. tölublaði *Leifs*, ásettu fimm til sex konur sér að stofna sjálfstætt kvenfélag. Hófu þær félagsstarfsemi sína með því að láta leika „Sigríði Eyjafjarðarsól", og með ávinningnum, sem varð af leik þessum, mynduðu þær félagssjóð og sömdu um leið lög og reglur fyrir félagsskap sinn að lifa eftir. Það hélt vikulega fundi í húsi Framfarafélagsins og borgaði félaginu $50 eitt skifti fyrir öll. Það hafði saman töluvert fé með dugnaði og ötulli framgöngu. Gekst það fyrir hlutaveltum, sjónleikum og samskotum og lá alls ekki á liði sínu. Barnaskólahald Framfarafélagsins styrkti það með 122 doll. gjöf. Meðal fátæklinga útbýtti það 60 doll. Einnig gaf það með tveimur íslenskum stúlkum, sem gengu á nunnuskóla og fengu tilsögn í söng, 87 doll. Til minnisvarðans yfir Hallgrím Pétursson, hið mikla sálmaskáld þjóðar vorrar, gaf það $50, og hafa fá kvenfélög sýnt fósturjörð sinni meiri ræktarsemi, því eins og kunnugt er, stendur minnisvarði þessi fyrir framan dómkirkjuna í Reykjavík. 8. júní 1883, þegar fyrst er sagt frá kvenfélagi þessu í dálítilli fréttagrein í *Leifi*, var það búið að halda sex kjörfundi og hafði þá gjört alt þetta, sem upp hefir verið talið, og varið til þess nær $400. Þar fyrir utan átti það 150 doll. í sjóði á vöxtum, svo því hefir furðu-vel fénast á þeim tíma, sem það var þegar búið að starfa, enda varið fé sínu mjög vel. Sýnir það hve samkomulagið milli félaganna var gott, að kvenfélagið hlynnir með stórgjöfum að helstu velferðarmálum Framfarafélagsins. Vér getum ekki neitað oss um að setja hér dá-

litla *klausu* um kvenfélagið úr *Leifi*. Hún er niðurlagið af frásögninni um gjörðir þess, og stendur gervinafnið *Kranz* undir.

„Þegar menn gæta að, hversu veikt og fáliðað félag þetta var í fyrstu og lítil hjálparmeðul það hafði, verða menn að kannast við, að konur þessar hafa sýnt bæði framúrskarandi dugnað, þol og þrek, enda þekkjum vér stofnendur og forvígiskonur félags þessa að sönnum framfaraáhug, mentun og löngun til að koma fram til góðs hvarvetna, og vér óskum þess, að félag þetta megi haldast við á meðal vor með sama fjöri og framkvæmdum og það hefir gjört hingað til, og að meðlimir þess með tímanum reisi sér þann bautastein, sem staðið geti meðan nokkur íslensk kona byggir hálfu þessa, svo að niðjar þeirra, mann fram af manni, blessandi minningu þeirra, brýni fyrir dætrum sínum að feta dyggilega í fótspor ættmæðra sinna, þeirra kvenna, er fyrstar stofnuðu „Hið íslenska kvenfélag í Winnipeg" og þá mun hin eldgamla fjallkona, vitandi heiðri sínum viðhaldið af dáðríkum dætrum sínum í heimsálfu þessari, grátfögur gleðja sig og með gulli rita nöfn þeirra á sinn fagra, fornfræga söguskjöld". Þetta er eins andríkt og þó það hefði verið sagt yfir rjúkandi púnskollu.

Í júlímánuði 1883 hélt félag þetta kveldverðarsamkomu og varði ágóðanum af henni og auk þess dálitlu fé úr sjóði sínum til hjálpar íslenskum vesturförum, er hingað komu það sumar; styrkti það þannig enn eitt af málum Framfarafélagsins með dugnaði sínum. Kristrún Sveinungadóttir og Sigurborg Pálsdóttir unnu á innflytjendahúsinu ekki skemur en tvær vikur og Jóhann Gottfred með þeim, að matreiðslu

handa nýkomnu fólki, og höfnuðu með þessu líknarverki sínu góðri vinnu, sem þá var hægt að fá, og vel launaðri. Ekkert í sögu Vestur-Íslendinga er fegurra en það, hve ant þeir hafa látið sér um það vera frá fyrst til síðast að liðsinna og leiðbeina nýkomnu fólki íslensku með öllu móti og leggja oft stórkostlega mikið í sölurnar, ekki að eins fjármunalega, heldur með því að ganga svo og svo nærri sér á ýmsan hátt.

Og í janúar um veturinn 1884 stofna konurnar aftur til kveldverðarsamkomu í því skyni að verja ágóðanum til húsbyggingar, eða til að stækka hús Framfarafélagsins, því ,,nú eigum við von á góðum presti að heiman í sumar." Þótti því tilhlýðilegt að halda miðsvetrarsamkomu eins og títt var í fornöld, og skoraði á helstu söngmenn, ræðumenn og skáld að gjöra samkomu þessa sem skemtilegasta. Varð það ein hin myndarlegasta samkoma, sem haldin hafði verið með Íslendingum og var hún haldin í húsi Framfarafélagsins 25. jan. Og þar sem kveldverðarsamkoma þessi er eiginlega fyrsta samsætið, sem Vestur-Íslendingar reyna að vanda til eftir föngum, er réttast að skýra frá því, sem fram fór. Fyrst voru vistir frambornar og gestirnir látnir setjast að velbúnum borðum, er stundu undir mörgum krásum og dýrum. Að kveldverðinum loknum, byrjuðu ræður og söngur. Þar var kvæði sungið til gestanna eftir Vilhelm Pálsson, og ræða haldin af S. Stefánssyni um tilgang samkomunnar; Árni Friðriksson talar fyrir minni kvenna; Sigurður Jóhannesson og Bárður Sigurðsson fluttu báðir kvenfélaginu kvæði; Jón Runólfsson talar fyrir minni sönglistarinnar; Baldvin Baldvinsson flytur ræðu um jafnrétti karla og kvenna, en Vilhelm Pálsson kvæði,

*Lýðhvöt.* Magnús Pálsson talaði til barna og unglinga og var á eftir því sungið kvæði eftir Vilhelm Pálsson. Kristrún Sveinungadóttir talaði um mentunarástand íslenskra kvenna. Páll Magnússon flutti ræðu til Kvenfélagsins, Jón Björnsson talaði um frelsið og hvernig menn ættu að hagnýta sér það. Þá talaði Vilhelm Pálsson um skáldskap og Magnús Pálsson flutti skilnaðarorð í nafni Kvenfélagsins og var þá samkomunni slitið með því að syngja þjóðsönginn enska: *God Save the Queen.* Mjög voru menn ánægðir með samkomu þessa, enda ættu menn að hafa fengið fulla saðning bæði andlega og líkamlega, þar sem hvorugar vistirnar virðast verið hafa af skornum skamti. Ágóðinn af samkomunni varð 57 doll. og 50 cts og gekk hann í húsbyggingarsjóð Framfarafélagsins. Söngnum á samkomu þessari var stjórnað af Jóni A. Blöndal, sem þá var nýkominn frá Íslandi, og þótti aldrei hafa verið sungið jafnvel af Íslendingum í Winnipeg og gjört var við þetta tækifæri.



## Björn Jónsson,

risstjóri ÍSAFOLDAR.

---



BJÖRN JÓNSSON.

*Almanakið* flytur í þetta sinn mynd af einum hinum allra-merkasta manni þjóðar vorrar, þar sem það hefir mynd Björns Jónssonar, ritstjóra Ísafoldar, meðferðis. Mun mörgum Íslendingi vera forvitni á að sjá, hvernig sá maður kemur fyrir sjónir, sem svo atkvæðamikinn þátt hefir átt í siðmenningarbaráttu þjóðar vorrar þenna síðasta mannsaldur nærri allan. Mönnum er því fremur forvitni á að sjá hann, sem það hefir verið á allra vitund, að heilsa

hans hefir um all-langan tíma undanfarinn verið biluð mjög, og svo ramt að því kveðið, að hann varð síðastliðið sumar að hverfa til Kaupmannahafnar og leita sér þar læknishjálpar. Var þar hættulegur holdskurður á honum gjör, svo vinir hans allir hafa verið milli ótta og vonar með, hver úrslit veikindi hans mundu hafa. En öllum þeim, er nokkurn veginn rétt kunna að meta sanna mannkosti og ágæta forustu-hæfileika, hefir þótt sem þá mundi skarð fyrir skildi, sem seint fyltist, ef hans misti nú við. Því sjaldan eða aldrei hefir þjóð vorri eins riðið lífið á að fá að njóta allra ágætismanna sinna og nú. Enda er nú mikil og góð von um bata, eftir öllum fregnum, og líkur til, að hann nái fullri heilsu og kröftum, svo að hann eigi mörg starfsár fyrir hendi. Hann er enn í Kaupmannahöfn, þegar þetta er ritað, að svo miklu leyti sem kunnugt er, en búist við, að hann muni ferðafær áður langt líður.

Björn Jónsson er fæddur 8. október 1846 og er sonur Jóns Jónssonar, bónda í Djúpadal í Barðastrandarsýslu. Hann kom í Reykjavíkurskóla haustið 1862 og útskrifaðist vorið 1869 með fyrstu einkunn. Þótti hann ágætur skólamaður og var álitinn nokkurn veginn jafn-vígur á allar námsgreinar. En einn af skólabræðrum hans, sem nú er fyrir löngu látinn, höfum vér heyrt segja, að mest hafi hann öfundað hann af því, hve nám mannkynssögunnar og alt, er að því lítur, hafi leikið honum í hendi. Og þegar hann var í Kaupmannahöfn, er sagt, að Jón heitinn Sigurðsson, föðurlandsvinurinn ágæti, hafi sagst ekki þekkja neinn meðal ungra námsmanna íslenskra, er eins vel væri til foringja fallinn og hann. Enda hafa þeir foringja-

hæfileikar betur og betur í ljós komið, og flestum mun koma saman um, að í stjórnmálabaráttu þeirri, er þjóð vor stendur nú uppi í, sé hann hinn eiginlegi foringi, þótt aðrir séu þar oft fyrir framan. Og víst er um það, að betri föðurlandsvin og einlægari eigum vér ekki. Að loknu prófi á latínuskólanum fór hann til háskólans í Kaupmannahöfn. Las hann þar lögfræði um nokkur ár, en tók ekki embættispróf. Hefir honum ósjaldan verið um það brugðið af miður vandfýsnum mótstöðumönnum, sem með því hafa viljað koma lítilsvirðing á honum inn hjá þjóð vorri. En sannleikurinn er sá, að hann mundi ekki vilja skifta við nokkurn lögfræðing í landinu, en flestir ef ekki allir, vilja við hann skifta, ættu þeir þess nokkurn kost. Heyrt höfum vér, að hann hafi um tíma sökt sér svo niður í lestur hinna ágætustu dagblaða, er hann mátti yfir komast, þegar hann var í Kaupmannahöfn, að hann sást ekki nema með blað í hendi, hvar sem hann var staddur. Mun hann þá hafa verið farinn að hugsa um það fyrir alvöru, að gjöra blaðamenskuna að lífsstarfi sínu. Skömmu eftir, að hann kemur til Reykjavíkur, byrjar hann útgáfu *Ísafoldar* 19. sept. 1874. Þá var þjóð vor rétt búin að fá hina nýju stjórnarskrá, er Kristján konungur veitti henni þjóðhátíðarárið 1874, og með henni löggjafarvald og fjárforráð. En um leið hefst merkasti þátturinn í hinni nýrri sögu þjóðar vorrar. Þegar í byrjun tók hann í blaði sínu að ræða landsmál af meiri alvöru, þekking og áhuga en menn höfðu áður átt að venjast. Hann lét ekkert fara fram hjá sér, ekkert vera blaðinu óviðkomanda. Og stöðugt hefir því farið fram, enda hefir það engum dulist, sem kunnað hefir að lesa, hvernig maðurinn,

er á bak við svo að segja hvert orð í blaðinu hefir staðið, hefir öll þessi ár sjálfur verið að vaxa. Hefir einmitt mest borið á því síðustu árin, því nú tjáir eigi lengur því að neita, að *Ísafold* er stórveldi orðin í hinu smávaxna íslenska þjóðlífi voru. Hún fór ekki eins geyst úr garði og mörg önnur blaðfyrirtæki með þjóð vorri hafa farið. Þegar Ísafold hóf göngu sína haustið 1874, var hún lítil og óálitleg í samanburði við það sem hún nú er. Hún kom þá út tvisvar til þrisvar hvern mánuð, 32 blöð á ári, og hvert blað nær þriðjungi minna ummáls en nú. En stöðugt hefir blaðinu vaxið fiskur um hrygg, og nú má það stórblað heita eftir efnum þjóðar vorrar og ástæðum; kemur út einu sinni eða tvisvar í viku, 80 arkir minst á hverju ári og þær stórar. Með Ísafold hefjast ný tímamót í íslenskri blaðamensku. Blöð vor höfðu áður undurlítil áhrif haft á hugsunarhátt þjóðar vorrar. Sú skoðun var alment ríkjandi, að blöðin ættu ekki að setja sér það markmið. Þau ætta að eins að vera skuggsjá þess, sem hreyfði sér í þjóðlífinu, halda ekki fram neinni ákveðinni stefnu, en gefa sem allra flestum stefnum mótmælalaust lausan tauminn, og gjöra helst öllum skoðunum jafn-hátt undir höfði. En auðséð hefir það á Ísafold verið, að ritstjóri hennar hefir eigi haft þanna skilning á ætlunarverki blaðamannsins. Hann hefir aldrei dregið dul á skoðanir sínar, heldur látið þær eins ótvíræðilega í ljós og unt hefir verið. Stöðugt hefir hann átt í höggi við andvígar skoðanir í öllum efnum, sem frá hans sjónarmiði hafa meira og minna öfugar verið, sumar rammöfugar og rangsnúnar, aðrar haldlausar og ónýtar. Deilurnar milli andstæðra skoðana hafa aldrei með þjóð vorri verið eins

harðar og síðastliðinn aldarfjórðung. Hugsanir hafa verið að vakna og skoðanir að myndast. En það er með ungar skoðanir eins og óþroskaðan æskumann, er hann fyrst fer að skifta sér af málum manna. Hann heldur, að hann viti alt, en hir ir ekki neitt og veitir þá ekki af, að hann sé dustaður dálítið til af hinum eldri. Það hefir Björn Jónsson verið næsta ótrauður að gjöra og unnið með því þjóð sinni stórmikið gagn. Sumum kann að hafa fundist hann við og við nokkuð þungur og harðhentur í þeim viðskiftum, og skulum vér ekki mæla það af honum. Ein hin göfugasta tegund alvörunnar er heilög bræði (*moralsk indignation*) og í opinberu lífi hverrar þjóðar þarf nokkuð af henni til að vera, ef stefnuleysið og öfugstreymið á ekki að fá þar yfirhönd. Af þessari tegund alvörunnar á Björn Jónsson meira í fari sínu en flestir Íslendingar aðrir, þeir er nú eru uppi með þjóð vorri, og eftir því ættu þeir að muna, sem leggja honum til lasts, þegar hann er harðorður í garð mótstöðumanna sinna. Enda álítum vér óhætt fram að taka, og þykjumst ekki segja það út í bláinn, að enginn einn af samtíðarmönnum vorum hafi, þegar alls er gætt, haft jafn-mikil áhrif og jafn-víðtæk á hugsunarháttinn með þjóð vorri og hann. Ísafold hefir þrátt fyrir alt myndað nýtt almennings álit í landinu; hún hefir myndað andrúmsloft í andlegum skilningi, sem ekki var áður til. Ekki þorum vér að segja, að það almenningsálit hafi enn orðið ofan á hjá meiri hlutanum af þjóðinni. Að minsta kosti ber það ekki ávalt sigur úr býtum, heldur verður æði oft að lúta í lægra haldi, á yfirborðinu að minsta kosti. En mikill hluti hinna helstu manna og bestu, sem nú eru uppi, lifa í því andrúmslofti og ljá þeim skoðunum fylgi sitt. Það er eigi ávalt, að þeir eigi til langframa sigri að hrósa, sem mest stundarfylgi hafa, og í bili bera hærra hlut í leik. Hin þunga undiralda þess almenningsálits, er um stund verður að lúta í lægra haldi, skilar sér á sínum tíma, og verður

þá þeim mun öflugri, sem hún hefir lengur á leiðinni verið.

Sumir blaðamenn dekra við það almenningsálit, sem þeir vita að ræður lögum og lofum, þótt þeir finni til þess, að það sé bæði spilt og öfugt. Þeir þreifa fyrir sér, áður þeir láta nokkurar skoðanir í ljósi til að fá vitneskju um, hvernig almenningur manna muni á málin líta. Slíkt dekur á ekkert annað en fyrirlitning skilið. Enda hefir það frá upphafi verið eins fjarlægt Ísafold og ritstjóra hennar og frekast má verða. Á öllum tepruskap og „humbuggi" hefir hann ávalt megna óbeit og lætur í ljós álit sitt á mönnum og málefnum hiklaust í blaði sínu, hvað sem hver segir. Þar er karlmannlega til dyranna komið í hvert skifti og einarðlega. Þegar ritstjórinn er sannfærður orðinn um ágæti einhvers málstaðar eða skoðunar, ljær hann fylgi sitt ótrauður og liggur ekki á liði sínu, og mun hann oftast drjúgur reynast. Lætur hann það þá litlu skifta, hve margir kunna að vera á móti.

Björn Jónsson er giftur Elísabetu Sveinsdóttur, systur Hallgríms biskups Sveinssonar. Þau eiga fjögur börn, öll upp komin og mannvænleg. *Guðrún* er nýgift Þórði lækni Pálssyni í Axarfirði, *Sigríður* er nýfarin til Kaupmannahafnar til að leggja stund á málaralyst, en *Sveinn* og *Ólafur* stunda báðir nám við háskólann í Kaupmannahöfn. Myndin, sem Almanakið flytur af honum, er fimm ára gömul, en gefur mjög góða hugmynd um útlit hans. Að ytra áliti er hann all-ólíkur flestum Íslendingum. Hann hefir verið dökkur á brún og brá, en er nú tekinn að hvítna og ber það með sér, að vera vestfirskar að kyni, og þá um leið að líkindum ættaðar vestan um haf að fornu fari, þar sem víkingarnir höfðu blandast blóði Keltanna. Þeim, sem þekkja hann, kemur saman um, að leitun sé á skemtilegri manni og elskulegri í allri umgengni. Hann neytir aldrei áfengra drykkja, hefir megna óbeit á drykkjuskap, styður bindindishreyfinguna af alefli, og hefir mörgum drykkjumanni á fætur komið. Kristin-

dómurinn og kirkjan hefir ávalt átt griðland í blaði hans; þar hefir mörg ágæt hugvekja komið í kristilega átt, og kristilegri lífsskoðun ávalt verið haldið fram, en vantrúarbelgingur og árásir lokað úti. Björn Jónsson ritar hreinna íslenskt mál en flestir aðrir og hefir tamið sér stíl svo einkennilegan og persónulegan, að hvert orð, er hann ritar, má vanalega þekkja, þótt nafns hans sé hvergi getið.

---

## Virkið mikla við Húðsonsflóann.

Sögukorn frá 18. öld.

—

Á eyðilegum og köldum eyrarsporði, á vesturströnd Húðons-flóans, þar sem Churchill-fljótið ryður sér farveg um auðnina til sjávar, standa rústir voldugasta virkisins, er gert hefir verið úr grjóti og steinlími á sléttri grund í Norður-Ameríku. Veggirnir standa enn og eru sem næst því jafn-traustir nú, eins og þegar smiðirnir skiluðu af sér verkinu, þrátt fyrir hregg og hríð, er á þeim hefir dunið í 150 ár.

Sögukorn þetta er eins markvert og margir þeirra smáþátta, er í heild sinni mynda sögubálkinn um viðureign Breta og Frakka á 18. öldinni. Þó er þessa þáttar hvergi getið nema í skjölum fransks aðmíráls, er ef til vill stafar af því, að hann þykir fremur tilheyra sögu Húðsonsflóa-félagsins, er á þeim tíma er þetta gjörðist, var voldugt mjög og kvaðst eitt eiga nærri níu tíundu hluta landflæmis þess alls, er nú heitir Canada-ríki, og þá, að auki, réði lögum og lofum í miklum hluta þess lands, sem nú nefnist Vestur og Norðvesturríki Bandaríkja.

Sama árið og „félagið mikla", er rauðskinnar kölluðu það alment, fékk einkaleyfi sitt hjá Karli II. Englandskonungi (1670), stofnaði það sína fyrstu verslun við Húðsons-flóann (við Rupertsármynnið). Reyndist verslunin svo arðsöm, að félagið hafði innan

fárra ára stofnað verslanir við mynni flestra fljótanna, sem í flóann falla. Um þetta leyti voru sjóræningjar á víð og dreif um höf öll og mátti búast við þeim er minst varði inn á hvern vog, þar sem fjárvon var. Félagið óttaðist þá ekki síður en aðrir sjófarendur. Á seinustu árum 17. aldarinnar átti félagið líka sífelt í höggi við Frakka, er gerðu út menn hvað eftir annað til að hrífa verslanina úr höndum félagsins, en helga Frakklandskonungi land alt umhverfis flóann. Í öllum þeim sóknum mátti félagið miður og kom þar að lokkum, að verslunarstöðvar allar við flóann voru komnar í hendur Frakka, að undantekinni þeirri við Albanyármynnið. Eignir sínar fékk félagið þó aftur (1714) eftir að staðfestur var sáttasamningurinn, er gerður var í Utrecht milli Frakka og Breta. Af þessum óförum og vegna hræðslu við sjóræningja, réði félagið að óheppilegt væri að hafa verslanir sínar varnarlausar alveg. Það tók því til að víggirða verslunarstaði sína, en flest voru þau virki gerð úr trjávið eingöngu. Stjórn Englands áleit þann útbúnað ónógan og lét félagið skilja að því væri happasælla að steypa sér ekki í sama vandann í annað sinn. Þá var það að félagið tók til að byggja virkið við Churchill-fljótið, sem hér er um að ræða. Virki þetta var nefnt „Prince of Wales"-virki, og það nafn bera rústir þess enn.

Í lögun var virkið hornréttur ferhyrningur, 300 fet á hvern veg. Á hverju horni var skot-turn, er gekk lengra út en virkisveggurinn. Hæð veggjanna var 25 fet frá jafnsléttu á útbrún. Grunnmúrinn gekk langt í jörð niður og var gerður úr óhöggnu grjóti og steinlími. Breidd hans neðst var 42 fet, en drógst lítið eitt að sér en þó ekki meira en svo, að munurinn var ein 6 fet á 30 teta hæð. Frá yfirborði jarðar voru veggirnir gerðir í tvennu lagi, með 15 feta breiðu millibili. Þegar báðir voru fullgerðir, var bilið á milli þeirra fylt með möl og sandi, jafnhátt innri veggbrún. var þannig myndaðar 20 feta hár veggur, er

að neðan var 42 og að ofan 36 feta þykkur. Ytri veggurinn, 10 feta þykkur, reis fimm fetum hærra og myndaði skotgarðinn til skýlis varnarliðinu. Ekki var virkið fullgert alveg fyrri en 1780 og hafði þá staðið í smíðum 27 ár.

Virkið var þannig sett á eyrinni, að tveir veggir þess vissu að hafinu, en tveir að landi. Og utanvert við annan veginn, er að landi vissi, var sjálfgert dýki og mönnum lítt fært. Það var því á einn veg að eins að sækja mátti virkið á landi og þar var líka eina hliðið á þessum ógna grjótbálki. Inni í virkinu voru aðal-byggingar tvær, báðar úr steini. Sú minni var gengt hliðinu, tvíloftuð bygging, 100x33 fet að stærð, og ætluð liðsforingjum einum til not. Hin byggingin var hermannaskálinn með áföstu eldhúsi og bústað bryta. Í þessari byggingu mátti hýsa mörg hundruð hermenn. Í skot-turnunum 3 voru forðabúr, hvert um sig 40x10 fet að stærð, en í þeim fjórða var púðurhúsið, mjög svo ramgert hólf 24x10 fet að stærð.

Það liðu svo yfir 20 ár, að ekkert reyndi á virkið, því friður ríkti að nafninu milli Breta og Frakka. Sjóræningjar gerðu ekki vart við sig og virkisins mikla vegna óttuðust nú Rauðskinnar félagið hálfu meir en áður. Þessi langi friður olli því, að félagið gerðist kærulaust og gaf varðmönnunum heimfararleyfi einum eftir annan, þangað til eftir voru að eins um 100 menn, og sem ráða má af líkum að hafi metið sukk og svall meir en heræfingar. Bleyðuskapur þeirra, er á harðfengi skydli reyna, ber vott um alt annað en dyggilega herþjóhustu.

Í maí 1782, mitt í ófriði milli Breta og Frakka, lagði franskur aðmíráll, La Perouse að nafni, í för til Húðsons-flóa með 600 hermenn á þremur skipum. Aðmírals-skipið, „La Sceptre", var stærst, bar 64 fallbyssur, en hin skipin 36 hvort. Ferðin gekk seint og í Húðsons-sundi voru skipin hætt komin í ís, en þó náði aðmírállinn heilu og höldnu til Churchill um miðjan ágúst. Lið sitt alt og vopn setti hann á land

í mílu fjarlægð frá virkinu til sóknar á landi, því honum leist að virkið mundi seinunnið af sjó. Sendi hann þá þann boðskap til hershöfðingjans í virkinu, að hann skyldi gefast upp tafarlaust með liði sínu öllu, því að umsátinni yrði eigi létt fyrri en virkið væri unnið. Varðmennirnir æðrnðust, er þeir sá fjölda aðsækjenda, og er þessi boðskapur var birtur, kúguðu þeir yfirmann sinn, Thorne Hearne, til að leggja niður vopnin að óreyndu. Og hann lét sér það lynda. Vígi þetta hið mikla kom að engu haldi í eina skiftið, er á það skyldi reyna. Hliðinu var slegið opnu og hermenn Frakka ruddust inn og tóku alla hermennina til fanga án þess að þurfa að bera byssu í sigti. Á höfninni lágu 3 skip nýkomin frá Englandi og fermd vörum til félagsins. Þau tók aðmírállinn franski einnig og án fyrirstöðu. Að því búnu sló hann eldi í verslunarhús félagsins og brendi þau til rústa, og réðst síðan á virkið sjálft. Þar mætti hann fyrstu mótspyrnunni, því steinarnir vildu ekki undan láta, en þó tókst honum að sprengja púðurklefann, þann skotturn allan og nokkur skörð í veggina í grendinni. Meira treysti hann sér ekki til að gera í svip, enda sannast að hann mátti ekki dvelja, því vetur var í nánd en eftir að vinna félaginu miklu meiri skaða. Lét hann þá hermennina bylta fallbyssunum öllum úr vígskorðum og lama þær, en bera burtu alt fé mætt úr byggingunum, slá svo eldi í og láta það brenna, sem brenna vildi. Þaðan sigldi hann svo suður um flóaun til Heyesárvirkis og eyddi þar með eldi bæði virkinu og vöruhúsum. Sömu afdrif fékk virki og verslunarhús félagsins við Levern-fljótið fáum dögum síðar. Hershöfðingjana úr þessum þremur virkjum tók hann með sér til Frakklands og vöruskipin þrjú, en varðliðinu öllu slepti hann lausu á sandinn við flóann, verju og vistalausu, til að bjargast sem best það kynni þangað til skip félagsins kæmu út að ári liðnu.

Þannig reyndist virki þetta hið mikla gagnslaust alveg. Að það hafi virkilega verið eins traust eins og

til var ætlast og hrun þess því eingöngu að kenna varmensku varðmannanna, má ráða af áliti aðmírálsins sjálfs. Herstjórn Frakka ávftaði hann fyrir að hafa ekki sundrað því til grunna, en hann svaraði því, að til þéss hefði hann þurft heilt ár og ósvikna vinnu allra sinna liðsmanna. Til frekari sönnunar er og frásögn Dr. Roberts Bell, jarðfræðings Canada-stjórnar, er skoðaði rústir þessar fyrir fáum árum síðan, á rannsóknarferð í grend við Húðsonsflóann. Hann segir þannig frá: ,,Veggirnir eru í góðu ástandi, en vallgróið er nú alt vegglagið innan við skotgarðinn. Innan í virkinu er flest á förum, fallbyssurnar orpnar sandi og ryðbrunnar og veggir byggingarinnar óðum að molna, þó enn standi þeir að miklu leyti. Eikarplankar, fluttir frá Englandi þegar verið var að byggja virkið, og ýmiskonar annar trjáviður, tekinn um sama leyti í grend við flóann, liggur þar á víð og dreif, sviðinn og svartur, eins og La Perouse aðmíráll skildi við hann, en furðanlega lítið fúinn.''

---

Síðar bygði Húðsonsflóafélagið annað virki við Churchill-fljótið, en lengra frá sjónum, og ber það sama nafn og fljótið. — Að styrjöldinni lokinni fékk og félagið fullar bætur fyrir áverkann, sem Frakkar veittu því.

---

**Smávegis.**

Í Kína kostar tíu cents að flytja eitt tonn af vörum eina mílu vegar og meðal kaupgjald þar ein tíu cents á dag. Í Ameríku kostar það sextíu og níu þúsundasta úr centi að flytja eitt tonn eina mílu og þar er meðal kaupgjald tveir dollars og sextíu cents á dag. Þessar tölur sýna hinn mikla mun á menning þessara þjóða.

---

Nákvæm athugun hefir verið gjörð til að uppgötva hverjir litir á einkennisbúningi hermanna, reynist best skotmörk fyrir kúlur óvinanna, og því hættulegastir lífi hermannanna, og niðurstaðan hefir orðið sú, að rauður litur er hættulegastur, þá grænn og brúnn hinn þriðji en blágrár litur hættu minstur.

---

## Úr búskaparsögu Vestur-Íslendinga.

Einn hinn mesti sæmdarmaður í hópi Vestur-Íslendinga er alveg nýlega fallinn frá. Það er Skafti Arason, bóndi í Argyle-sveit í Manitoba, sem lézt 24 júní síðastliðið sumar, Búskap sinn byrjaði hann bláfátækur eins og títt er með oss Íslendingum. Fyrst bjó hann sex ár samfleytt í Kjalvík í Nýja Íslandi. Þaðan flutti hann með 12 nautgripi vestur til Argyle vorið 1881, og munu þeir þá hafa verið aleiga hans. Mjög var hann fátækur þar eins og aðrir framan af. En með sparsemi, elju og stakri ráðdeild græddist honum smám saman fé Þegar hann féll frá, átti hann átta jarðir og mun hver þeirra hafa verið frá $2,500 til $3,000 virði og allar skuldlausar. Auk þeirra átti hann sjálfsagt eitt hið stærsta og fallegasta bú, sem nokkur íslenzkur bóndi hefir átt. Í hvert lag hann að öðru leyti var búinn að koma búskap sínum, sést bezt af lýsing þeirri af peningshúsi, er hann var rétt búinn að láta reisa áður en hann lézt, og hér fylgir á eftir Setjum vér lýsing þessa hér til þess, að þeir sem í fjarlægð búa, geti gjört sér nokkura hugmynd um það, þar sem það eflaust er alveg einstakt í sinni röð meðal íslenskra bænda.


SKAFTI ARASON.

Peningshús það, sem hér er um að ræða, er 60 fet á breidd og 100 á lengd. Að neðanverðu er það bygt úr högnum grásteini og eru steinveggirnir tíu fet á hæð Ofan á steinveggjum þessum hvíla fjórtán feta háir timburveggir. Sperrurnar eru í tvennu lagi og mynda dálítinn olnboga á þakinu. Eru neðri sperrurnar 26 fet á lengd, en hinar tólf, eða 38 fet á lengd samtals. Mænirinn er 42 fet frá jörðu. Timburloft er í húsinu öllu yfir steinveggjum, 10 fet frá jörðu. Er allur sá hluti hússins ætlaður fyrir fóður. Hólf eru í öðrum enda þiljuð af fyrir hafra, bygg og malað fóður, en hitt rúmið alt ætlað fyrir hey. Á þessu lofti er vindmylna, og eru 62 fet frá jörðu upp á endann á súlunni eða mastrinu, sem vængirnir eða vindhjólið er fest við, en níu fet af enda þess og upp á efra hjólbarðið, eða alls 71 fet frá jörðu. Sogar hún upp vatn handa búpeningi öllum, stykkjar sundur korn til fóðurs og sagar allan eldivið til heimilisþarfa. Á loftinu er

nægilegt rúm til að gjöra alt þetta. Brunnur er grafinn við annan enda hlöðunnar og dælir vindmylnan eða sogar vatnið úr honum í ámu eina stóra, sem á loftinu stendur, og liggja pípur úr vatnsámu þessari og út í trog eitt mikið eða vatnsþró, sem liggur við stafninn á hlöðunni. Er gripum og peningi öllum brynt þar úti og vatninu snúið af eða á eftir þörfum með *krana* einum. Úr þrónni geta sex hestar drukkið í einu. En svo er líka vatnið leitt frá vatnsþrónni á hvern bás í fjósinu, sem undir er loftinu. Er á hverjum bás dálítill vatnskassi hjá hverjum grip, sem hann getur drukkið úr, hve nær sem hann þyrstir, og eru þeir vatnskassar svo gjörðir, að vatnið í þeim er ávalt jafn-mikið, en flóir ekki yfir barmana og fyllist um leið og gripurinn drekkur. Aka má stórum heyækjum inn í norðurhlið hlöðunnar, gegn um breiðar dyr, sem til þess eru ætlaðar, og ganga þá hestarnir fyrir ækinu eftir upphækkuðum vegi alla leið upp á loftið. En undir vegi þessum við hliðina á hlöðunni, við steinvegginn undir hlöðudyrunum, sem ek ð er inn um, stendur dálítið steinhús áfast hinu húsinu; er það 20 fóta langt og 16 fóta breitt, með hallanda þaki, og er hallinn 2 fet. Ætlast er til, að geyma megi í húsi þessu jarðávexti, svo sem næpur og aðra rótarávexti. Nú eru þar hæns geymd og aðrir alifuglar. Heyinu er fyrir komið í hlöðunni með tvennu móti. Annað hvort er til þess notuð eins konar heykvísl, sem stungið er ofan í heyækið og grípur utan um það um leið. Liggur kaðall úr heykvísl þessari upp í dálítinn fjórhjólaðan smávagn úr járni, sem rennur eftir teinum á járnás í mænir hlöðunnar. Með hestafli má svo lyfta heyinu af vagninum upp í mæninn og færa það síðan á þann stað í hlöðunni, sem maður ætlar að koma því fyrir á. En þegar þangað er komið, er heykvíslin látin sleppa því beint niður. Stóru heyæki má fyrir koma í hlöðunni á þenna hátt með því að láta kvíslina skifta því sex sinnum, En svo er líka til annað verkfæri, sem notað er, þegar meira liggur á að flýta sér. Það er eins konar slöngva, sem lyfta heyinu á sama hátt af vagninum og slöngvar því inn í hlöðuna, og þarf þá ekki að skifta ækinu nema tvisvar.

Á neðsta gólfi, innan grjótveggjanna, er búpeningurinn allur geymdur. Hesthúsið er í vesturendanum; þar standa 20 hestar í jafnmörgum básum. Þar er herbergi afþiljað eða kompa fyrir aktýgi og reiðskap allan. Þar er líka vatnsþró, er hestarnir geta drukkið úr inni. Renna er þar með hleypiloki ofan úr hafrabúrinu og gengur hún niður í dálítinn kassa, þar sem mældur er hafraskamturinn handa hverjum hesti. Í hinum hluta hússins eru nautgripirnir. Í austurendanum eru tíu fet afallri breidd hússins þiljuð af fyrir kálfana og komast þar fyrir að minsta kosti einir 30 kálfar. Þar næst kemur aðal-kúafjósið. Þar eru fimm básaraðir, er ganga þvert yfir fjósið

með jötum fyrir framan. Í fjórum röðunum snúa kýrnar höfðum saman, en hin fimta gengur meðfram skilrúminu milli hesta og kúafjóssins. En milli jatanna eru mjóir gangvegir fyrir þá, sem skepnurnar hirða. Er heyinu þrýst niður um göt í heyloftinu og látið falla niður í gangvegina. Tekur svo sá, er gripina hirðir, heyið þar upp og leggur það fyrir gripina. Í hverri rőð eru 16 básar og er hér því rúm fyrir 80 fullorðna gripi. Með fram norður hlið er 5 fóta breiður gangur eftir öllu fjósinu frá einum enda til annars. Eftir honum má ganga til að sjá, hvernig öllu líður í fjósinu og komast á hvern þann stað, er maður vill. Á suðurhliðinni eru fjórar dyr, en inn af hverjum dyrum gengur flór þvers yfir fjósið, og er mykjan tekin þar upp í hjólbörur, og færð út í mykjusleðann, sem stendur fyrir utan dyrnar. Þó hús þetta sé stórt, gjörir það ekki betur en hýsa pening þann allan, sem til er á búinu. Kostað mun húsið hafa nálægt 5,000 doll.

— Þegar Skafti heitinn Arason féll frá, var bú hans virt á 32 þúsundir dollara, og er þó sagt að virðingin hafi verið með vilja gjörð heldur lág, 20 prct. lægri en það sem talið er vanalegt gangverð. Í Argyle hafði hann búið síðan 1881 og má þetta því heita árangurinn af 22 ára búskap; skuldir munu engar hafa hvílt á búinu.

---

## SMÁVEGIS.

Í Bandaríkjunum eru um tvö hundruð þúsund mílur af járnbrautum, sem gufuvagnar ganga eftir, og eykst sá mílufjöldi stöðugt. Við þær járnbrautir vinna meir en ein miljón manna og nemur kaup þeirra yfir sex hundruð miljón dollars á ári. Höfuðstóll þeirra járnbrauta er yfir tólf biljónir dollars. Á árinu 1902 var gróði þeirra samanlagður yfir eina biljón og sex hundruð miljónir dollars Á því ári fluttu þær meir en sex hundruð miljónir farþega og eina biljón og eitt hundrað biljónir tonna af flutningi.

Síðan gullið fanst í California 1848, hefir verið tekið upp af þeim málmi þar um ein biljón og fjögur hundruð miljónir dollars virði.

Í New York borg eru tvisvar sinnum eins margir Írar og í Dublin hundrað þúsund fleiri Þjóðverjar en í Hamborg og fleiri Ítalir en í Florence.

Á Frakklandi og á Ítalíu eru búin til stærst brauð, — því hér er ekki átt við „brauð“ prestanna á Íslandi. Hið ítalska „pípu“-brauð er bakað í hleifum, sem eru 2 til 3 fet á lengd. En á Frakklandi eru brauðin í lögun lík afar-löngum sívalning, svo að einn brauðhleifur er 4 eða 5 fet á lengd og oft 6 fet.

## Helstu viðburðir og mannalát meðal Íslendinga í Vesturheimi.

18—24 júní 1903 var 19. ársþing Hins ev. lút kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi haldið í kirkju Frelsis- og Fríkirkju-safnaða í Argyle-bygð í Manitoba.

21. júní 1903 var guðfræðis kand. Pétur Hjálmsson prestvígður. Fór sú athöfn fram í kirkju Argyle-safnaða í sambandi við kirkjuþingið, sem þá dagana stóð þar yfir.

Halldór B Gíslason veitt kennara embætti í mælskufræði (*oratory*) við háskólann í Minneapolis, Minn. (sonur Björns Gíslasonar dannebrogsmanns frá Hauksstöðum í Vopnafirði).

Í júní 1903 útskrifuðust úr lögfræðisdeild háskólans í Grand Forks þrír íslenskir námsmenn: Hjálmar A. Bergmann, sonur Eiríks Bergmanns á Gardar; John G Johnson, bróðir Péturs G. Johnsons málaflutningsmanns í Milton, N. D. (Þeir eru synir Gunnlaugs Jónssonar og Sigríðar Runólfsdóttur frá Bót í Hróarstungu í Norðurmúlasýslu), og Skúli G. Skúlason, bróðir Barða Skúlasonar málaflutningsmanns í Grand Forks, N. D. (Þeir eru synir Guðmundar Skúlasonar og Guðríðar Guðmundsdóttur frá Reykjavöllum í Skagafirði).

Í sama mánuði tók Stefán Th. Westdal 2. próf í lögum við háskólann í Washington, og hlaut nafnbótina *Master of Laws*. (Hans var minst í almanaki þessu árið sem leið).

Og enn í sama mánuði tók burtfararpróf við háskólann í Iowa Vilhjálmur Stefánsson með nafnbótinni *Bachelor of Philosophie*. (Hann er sonur Jóhanus Stefánssonar frá Kroppi í Eyjafirði). Stundar hann nú nám við guðfræðisskólann í Harward. — Í sama mán. tók Þorvaldur Þorvaldsson próf við háskólann í Harward, og er nú *Bachelor of Science*.

I júlí 1903 var Balvin L Baldvinsson endurkosinn í einu hljóði þingmaður fyrir Gimli kjördæmið til þings Manitoba-fylkis.

## MANNALÁT.

APRÍL 1902:

1. Sigurgeir Halldórsson bóndi í Nýja Íslandi (frá Dagverðartungu í Hörgárdal.

SEPTEMBER 1902:

10. Kristján Jónsson í Garðar-bygð, N.-Dakota (frá Árseli á Langanesi), 71 árs.

DESEMBER 1902:

1. Guðný Bjarnadóttir, ekkja, hjá tengdasyni sínum, Halldóri Þorsteinssyni bónda í Álftavatns-bygð, 81 árs

9. Björg Elíasdóttir, kona Eyvindar Jónassonar Doll, bónda í Mikley í Nýja Íslandi frá Bessastöðum við Hrútafjörð), 37 ára;

14. Jón Jónasson Landy, kjötkaupmaður og bóndi í Argyle-bygð (frá Austaralandi í Axarfirði), 51 árs.

16. Steinunn Jónsdóttir, kona Árna J. Jónssonar bónda við Milton í N.-Dakota (úr Borgarfjarðarsýslu), 51 árs.

30. Sigríður Guðbrandsdóttir, kona Kristjáns Helga Kristjánssonar í Selkirk af Ísafirði) 61 árs.

30. Ingvar Ólafsson í Seattle, Wash

31. Marteinn Guðlaugsson í Winnipeg [frá Álftagerði í Mývatnssveit], 78 ára.

JANÚAR 1903:

6. Helgi Pétursson bóndi í Íslensku bygðinni á Pembinafjöllum frá Ánastöðum í Hjaltastaðaþinghá], rúmlega fimtugur.

10. Sigríður, kona Alberts Jónssonar í Winnipeg.

18. Ragnhildur Magnúsdóttir, kona Magnúsar Einarssonar í Þingvallanýlendu, Assa [bjuggu síðast á Hnausi í Árnessýslu], 82 ára,

Kristjana Guðmundsdóttir á Point Roberts, Wash [ættuð úr Bolungarvík], 25 ára.

FEBRÚAR 1903:

9 Sigurbjörn skáld Jóhannsson í Argyle-bygð [frá Fótaskinni í Þingeyjarsýslu].

16. Klingenberg Steingrímsson í Seattle, Wash. [frá Sólheimatungu í Mýrasýslu], 31 árs.

18. Auður Grímsdóttir, ekkja, í ísl. bygðinni við Winnipegosis-vatn í Manitoba [ættuð úr Borgarfjarðarsýslu], 59 ára.

18. Guðný Jónsdóttir á Mountain, N.-Dakota [frá Kelduskógum á Berufjarðarströnd], 66 ára.

25. Guðmundur Pétursson Hnappdal í Winnipeg [frá Hafursstöðum í Hnappadalssýslu], 61 árs.

MARS 1903:

4. Guðrún Guðmundsdóttir í Winnipeg [ættuð af Skógarströnd].

5. Þóra Árnadóttir í Minneota, Minn. [dóttir Árna heitins Sigvaldasonar og Guðrúnar Aradóttir], 21 árs.

5. Katrín Þorláksdóttir í Marietta, Wash. [dóttir Þorláks Halldórssonar og Guðnýjar, sem lengi bjuggu á Öngulstöðum í Eyjafirði], á áttræðisaldri.

9. Eyjólfur Kristjánsson í ísl. bygðinni í N.-Dakota [frá Breiðavaði í S.-Múlasýslu], 79 ára.
11. María Jónsdóttir í Garðarbygð, N.-Dak. [ekkja Kristjáns Jónssonar frá Árseli á Langanesi].
12. Pálína Ólafsdóttir í California [dóttir Ólafs sál. Jónssonar, sem lengi bjó í Haukadal í Dýrafirði].
13. Stefán Oddleifsson bóndi í Nýja Íslandi [af Vesturlandi].
15. Jóhannes Björnsson Bray í Winnipeg [ættaður úr Keflavík í Snæfellsnessýslu], 51 árs.
16. Ingibjörg Magnúsdóttir Blöndal í Winnipeg [úr Vatnsdal], 20 ára.
27. Sigurður Kráksson bóndi við Mountain í N.-Dakota [ættaður úr Öxnadal í Eyjafjarðarsýslu], 50 ára.
29. Helga Pálsdóttir, ekkja, til heimilis hjá tengdasyni sínum Bjarna Tómassyni bónda við Manitobavatn] frá Húsabakka í Skagafirði], 76 ára.

Benedikt Hannesson við Mountain [af Norðurlandi].
Sólveig Guðmundsdóttir, kona Bjarna Ólafssonar bónda í Geysisbygð í Nýja Íslandi.

APRÍL 1903.

2. Þorleifur Björnsson í Garðarbygð í N.-Dakota [ættaður frá Fornhaga í Hörgárdal], 74 ára.
5. Jóhanna, dóttir Björns Ólafssonar bónda í Hensel-bygð í Norður-Dakota [úr S.-Múlasýslu], 18 ára.
5. Jóhann Ingjaldsson bóndi í Árnes-bygð í Nýja Íslandi [ættaður af Hegranesi í Skagaf.], 55 ára.
18. Kristján Engilbert Guðnason Backmann í Winnipeg, 24 ára.
20. Stefán Stefánsson bóndi í Grunnavatns-nýl. í Manitoba [frá Hofi í Vatnsdal].
28. Sigmundur Jónsson bóndi í Argyle-bygð [frá Hjarðarhaga á Jökuldal] 58 ára.

MAÍ 1903.

1. Sofía ekkja Sigmundar Jónssonar, er lést í Argyle 28. apríl þ. á.
17. Sölvi Sölvason í Ballard, Wash. [ættaður frá Syðri-Löngumýri í Blöndudal, flutti vestur um haf 1876], 73 ára.
17. Guðný Stefánsdóttir við Hallson í N.-Dak. [ættuð úr Vopnafirði] 30 ára.

Þorsteinn, sonur Þorsteins Þorkelssonar kaupm. við Manitobavatn.
Steingrímur Jónsson [frá Brúnastöðum í Árnessýslu], 29 ára.

JÚNÍ 1903:

7. Ámundi Gíslason bóndi í Mikley í N. Íslandi [ættaður úr Skorradal].

14. Málfríður Margrét Ólafsdóttir, kona Sigurðar Reykjalíns í Winnipeg, 27 ára,
16. Þorkell Árnason í Victoria, B. C. [ættaður frá Brautarholti á Kjalarnesi], 68 ára

JÚLÍ 1903:

1. Guðrún Guðmundsdóttir, kona Einars Árnasonar [ættuð frá Brennu í Lundareykjadal]
16. Sigþrúður Ólafsdóttir í Winnipeg, ekkja Jónatans Jakobssonar [úr Húnavatnssýslu], 47 ára.
18. Þóra, dóttir Th. Björnssonar við Hensel í N.-Dakota, 19 ára.
25. Þórdís Guðlaugsdóttir [sýslumanns Guðmundssonar í Skaftafellssýslu] í Winnipeg.
24. Sigurður Þorkelsson í Duluth, Minn. [frá Njarðvík í N.-Múlasýslu], 74 ára.

Guðrún kona Einars Árnasonar í Brandon, Man., á sjötugs aldri.

ÁGÚST 1903:

3. Guðrún Ingibjörg Þórðardóttir kona Þorsteins Jónssonar prentara í Winnipeg [dóttir Þórðar sem lengi bjó á Skeri við Eyjafjörð].
3. Steinunn Magnúsdóttir, kona Halldórs B. Skagfjörðs bónda við Morden í Manitoba [ættuð úr Skagafirði], 22 ára.
5. Guðmundur Þórarinsson, nýlega kominn frá Íslandi [ættaður frá Breiðabólsstað í Suðursveit, Austur Skaftafellssýslu], 32 ára.
8. Vigfús Sigurðsson bókbindari við Mountain, N.-Dak. (ættaður úr Þingeyjarsýslu, sonur Sig. Oddssonar Benediktssonar og Guðrúnar Vigfúsdóttur Þorkelssonar. Flutti hingað til lands 1873, var með fyrstu landnemum í Nýja Íslandi og nam jörðina Vigur fyrir sunnan Gimli, en flutti til Norður-Dakota 1881].
26. Guðbjörg Jónsdóttir, kona Árna Árnasonar Axfjörð, bónda í Hólabygð norður frá Glenboro [ættuð úr Vopnafirði], 50 ára.
25. Grímólfur Ólafsson bóndi í Mikley í Nýja Íslsndi [ættaður úr Hnappadalssýslu], 76 ára.
31. Guðný Einarsdóttir, ekkja í Argylebygð [frá Austaralandi í Axarfirði], 76 ára

Sigríður Jóhannsdóttir í Minneota [frá Skjaldþingsstöðum í Vopnáf.].

SEPTEMBER 1903.

3. Kristrún Sigvaldadóttir, kona Hávarðar Guðmundssonar trésmiðs í Álftavatns-bygð (ættuð úr Þingeyjarsýslu).
8. Elísabet Gísladóttir Gíslasonar í Winnipeg (úr Borgarfjarðarsýslu) 27 ára.
10. Ólafur G. Arngrímsson Anderson, kaupmaður í Minneota, Minn.,

(sonur Arngríms Eymundssonar og Maríu Ólafsdóttur, er síðas bjuggu á Búastöðum í Vopnafirði), 44 ára.

12. Sumarliði Sæmundsson, bóndi í Pipestone-bygð í Manitoba (frá Borgarfelli í Skaftártungum).

26. Helgi Illugason í Winnipeg frá Brúarfossi í Mýrasýslu), 57 ára.

OKTÓBER 1903.

2. Vigfús Þorsteinsson, trésmiður í Winnipeg (af Seyðisfirði), 19 ára.

5. Sigríður Björnsdóttir í Pelican Rapids, Minn., gift skoskum manni (ættuð úr Skagafirði),

7. Jóhanna Magnúsdóttir Jónassonar bónda við Íslendingafljót. Rúmlega tvítug að aldri.

9. Guðrún Hinriksdóttir, kona Stefáns Ólafssonar bónda við Foam Lake, Assa.

16. Margrét Eiríksdóttir Eymundssonar, kona Júlíusar J. Sigurðssonar bónda við Íslendingafljót (ættuð af Langanesi), 29 ára.

19. Halla Magnúsdóttir í Winnipeg, kona Péturs Einarssonar (frá Felli í Biskupstungum), 69 ára

20. Guðlaug Gunnþóra Kristjánsdóttir í Argyle-bygð (ættuð úr Vopnafirði), 22 ára

21. Lára Guðnadóttir Thorsteinssonar, kaupmanns á Gimli, 15 ára.

25. Kristján Jónsson Dalmann bóndi í Argyle-bygð.

28. Lafrans Jónsson, ókvæntur maður um fimtugt, við Foam Lake, Assa.

NÓVEMBER 1903

2. Helga Ingibjörg Hallgrímsdóttir, hjá tengdasyni sínum Andrési Helgasyni bókbindara á Baldur, Man., 70 ára.

14. Lilja Ólafsdóttir, hjá tengdasyni sínum Jóni Friðfinnssyni bónda í Argyle-bygð (bjó lengi á Þverá á Staðarbygð í Eyjafirði og flutti þaðan vestur um haf 1882), 86 ára.

16. Rannveig Magnúsdóttir Kjernested, hjá tengdasyni sínum Hans Einarssyni í Gardar-bygð, N.-Dak. (ættuð úr Ísafjarðar-sýslu, fluttist hingað vestur 1892), 70 ára.

26. Jón Rögnvaldsson, hjá syni sínum Steingrími, bónda nálægt Winnipeg (bjó allan sinn búskap á Leifstöðum í Kaupangssveit í Eyjafirði), 72 ára.






# Canada-Nordvesturlandid.

---

## REGLUR VIÐ LANDTÖKU.

Af öllum sectiouum með jafnri tölu, sem tilheyra sambandsstjórninni, í Manitoba og Norðvesturlandinu, nema 8 og 26, geta fjölskylduhöfuð og karlmenn 18 ára gamlir eða eldri, ekið sér 160 ekrur fyrir heimilisréttarland, það er að segja, sé landið ekki áður tekið, eða sett til síðu af stjórninni til viðartekju eða einhvers annars,

## INNRITUN.

Menn mega skrifa sig fyrir landinu á þeirri landskrifstofu, sem næst liggur landinu, sem tekið er. Með leyfi innanríkisráðherrans, eða innflutninga-umboðsmannsins í Winnipeg, geta menn gefið öðrum umboð til þess að skrifa sig fyrir landi, Innritunargjaldið er $10.

## HEIMILISRÉTTAR-SKYLDUR.

Samkvæmt núgildandi lögum verða landnemar að uppfylla heimilisréttar-skyldur sínar á einhvern af þeim vegum, sem fram eru teknir í eftirfylgjandi töluliðum, nefnilega:

[1] Að búa á landinu og yrkja það að minsta kosti í sex mánuði á hverju ári í þrjú ár.

[2] Ef faðir (eða móðir, ef faðirinn er látinn) einhverrar persónu, sem hefir rétt til að skrifa sig fyrir heimilisréttarlandi, býr á bújörð í nágrenni við landið, sem þvílík persóna hefir skrifað sig fyrir sem heimilisréttarlandi, þá getur persónan fullnægt fyrirmælum laganna, að því er ábúð á landinu snertir áður en afsalsbréf er veitt fyrir því, á þann hátt að hafa heimili hjá föður sínum eða móður.

[3] Ef landnemi hefir fengið afsalsbréf fyrir fyrri heimilisréttar-bújörð sinni, eða skírteini fyrir að afsalsbréfið verði gefið út, er sé undirritað í samræmi við fyrirmæli Dominion-landlaganna, og hefir skrifað sig fyrir síðari heimilisréttar-bújörð, þá getur hann fullnægt fyrirmælum laganna, að því er snertir ábúð á landinu (síðari heimilisréttar-bújörðinni) áður en afsalsbréf sé gefið út, á þann hátt að búa á fyrri heimilisréttar-bújörðinni, ef síðari heimilisréttar-jörðin er í nánd við fyrri heimilisréttar-jörðina.

[4] Ef landneminn býr að að staðaldri á bújörð sem hann á (hefir keypt, tekið í erfðir o. s. frv.) í nánd við heimilisréttarland það, er hann hefir skrifað sig fyrir, þá getur hann fullnægt fyrirmælum laganna, að því er ábúð á heimilisréttar-jörðinni snertir, á þann hátt að búa á téðri eignarjörð sinni (keyptu landi o. s. frv.).

## BEIÐNI UM EIGNARBRÉF

ætti að vera gerð strax eftir að 3 árin eru liðin, annaðhvort hjá næsta umboðsmanni eða hjá INSPECTOR sem sendur er til þess að skoða hvað unnið hefir verið á landinu. Sex mánuðum áður verður maður þó að hafa kunngert Dominion landa umboðsmanninum í Ottawa það, að hann ætli sér að biðja um eignarréttinn.

## LEIÐBEININGAR,

Nýkomnir innflytjendur fá á innflytjenda-skrifstofunui í Winnipeg, og á öllum Dominion landa skrifstofum innan Manitoba og Norðvesturlandsins, leiðbeiningar um það hvar lönd eru ótekin, og allir, sem á þessum skrifstofum vinna, veita innflytjendum, kostnaðarlaust, leiðbeiningar og hjálp til þess að ná í lönd sem þeim eru geðfeld; ennfremur allar upplýsingar viðvíkjandi timbur, kola og náma lögum. Allar slíkar reglugjörðir geta þeir fengið þar gefins, einnig geta menn fengið reglugjörðina um stjórnarlönd innan járnbrautarbeltisins í British Columbia, með því að snúa sér bréflega til ritara innanríkisdeildarinnar í Ottawa, innflytjenda-umboðsmannsins í Winnipeg, eða til einhverra af Dominion landa umboðsmönnum Manitoba eða Norðvesturlandinu.

# ÁGRIP AF REGLUGJÖRÐ

## um ráðstöfun málma á Dominion-löndum í Manitoba og Norðvesturlandinu.

### KOL

Kolaland fæst til kaups á $10,00 ekran þegar um linkol er að ræða, en $20,00 ekran fyrir harðkol. Engum einstaklingi eða félagi er selt meir en 320 ekrur. Auk þess skal kaupandi greiða stjórnargjald (Royalty) af því, sem úr námunum er tekið, eftir því sem ákveðið kann að verða með leyndarráðs-samþykt við og við.

### MÁLMGRJÓT (QUARTZ).

Einstaklingar, sem eru átján ára að aldri eða þar yfir, og hlutafélög, er hafa „Free Miner's"-skírteini, geta látið skrifa sig fyrir námubletti eða lóð.

„Free Miner's"-skírteini er veitt fyrir eitt eða fleiri ár, en þó ekki til lengri tíma en fimm ára gegn því, að einstaklingar borgi fyrir þau $10.00 á ári fyrirfram, en hlutafélög frá $50.00 til $100.00 á ári eftir höfuðstóls-upphæð sinni.

Skírteinishafi, sem uppgötvað hefir málm á einhverjum stað, má afmarka sér þar námulóð sem sé 1500 fet á lengd og 1500 fet á breidd.

Gjaldið fyrir að rita einhvern fyrir námulóð er $5.00.

Sá, sem þannig hefir numið námulóð, verður að eyða að minsta kosti $100.00 á ári í hana, eða borga þá upphæð til hlutaðeigandi „Mining Recorder" í staðinn. Þegar námuhafi hefir þannig eytt $500.00 eða borgað þá, má hann, eftir að hafa látið mæla lóðina og uppfylt aðra skilmála, kaupa landið fyrir $1 ekruna.

Afsalsbréf (patents) fyrir námulóðum skulu innihalda ákvæði um, að af seldum afurðum lóðanna skuli greitt stjórnargjald sem ekki yfirstigi fimm af hundraði.

Gullsands eða „Placer" námulóðir eru vanalega 100 fet á hvern veg; innritunargjald fyrir þær er $5.00 hverja, sem endurnýist eða borgist árlega.

Sá sem leyst hefir „Free Miner's"-skírteini getur einungis fengið tvö vélagraftrar fimm mílur hvert, er nái yfir tuttugu ár, og má innanríkis-ráðgjafinn endurnýja þau ef honum sýnist.

Leyfishafi skal hafa eina graftrarvél í gangi innan eins sumars frá dagsetningu leyfisins fyrir hverjar fimm mílur, en þegar einstaklingur eða félag hefir fengið meir en eitt leyfi, nægir ein graftrarvél fyrir hverjar fimtán mílur eða brot úr þeim. Afgjald af hverri mílu af á, sem þannig er leigð, er $10.00 á ári. Auk þess greiðist stjórnargjald, er nemur tveimur og hálfum af hundraði, af því sem upp er grafið eftir að það nemur yfir $10,000.00 að verðhæð.

### STEINOLÍA.

Alt Dominion-land, sem ekki er þegar numið eða ráðstafað í Manitoba og Norðvesturlandinu, skal vera opið til steinolíu-leitar. Ef sá, sem leitar, skyldi finna olíu í svo ríkulegum mæli að það borgi sig að byrja starf, þá má hann fá 640 ekrur af ónumdu og óafhentu landi, sem liggi að og innifeli í sér blettinn, er hann fann olíu á, fyrir $1 ekruna, og borgi auk þess það stjórnargjald, sem ákveðið kann að verða með leyndarráðs-samþykt.

**JAMES A. SMART,**

DEPUTY MINISTER OF THE INTERIOR.

# C. P. R.

## LANDEIGNIRNAR.

14,000,000 ekrur af úrvals akuryrkju- og engjalöndum í Vestur-Canada.

Í Manitoba og suðaustur Assiniboia, frá $4 til $10 hver ekra eftir gæðum ög afstöðu.

Í suðvestur Assiniboia og Suður-Alberta, $3 50 til $6 hver ekra Engjalöndin $3,50.

Í Norður-Alberta og Saskatchewan, $5 til $7 ekran. Breytingum er þetta verð undirorpið án aðvörunar.

## KAUPSAMNINGARNIR.

Kaupandi, sem ætlar sér að búa á landinu sjálfur getur keypt 640 ekrur eða minna með tíu ára borgunarfyrirkomulaginu, þar sem viss hluti höfuðstólsins og vaxtanna er lagður saman til fyrstu niðurborgunar, og síðan afgangnum skift í nín jafnar árlegar afborganir eins og hér segir:

| 160 ekrur | Fyrsta niðurborgun | |
|---|---|---|
| á $4:00 ekran | $ 95.85 og 9 jafnar afborganir með | $ 80.00 |
| 4.50 " | 107.85 og 9 jafnar afborganir með | 90.00 |
| 5.00 " | 119.85 og 9 jafnar afborganir með | 100.00 |
| 5.50 " | 131.80 og 9 iafnar afborganir með | 110.00 |
| 6 00 " | 143.80 og 9 jafnar afborganir með | 120.00 |

Kaupendur, sem ekki undirgangast að setjast á lönd sín verða að borga einn sjötta strax, og afganginn með fimm jöfnum árlegum afborgunum og rentur er nema 6 prósent.

## AFSLÁTTUR.

Ef land er að fullu borgað um leið og kaupin eru gerð, er afsláttur gefinn, sem nemur tíu prósent á fimm sjöttu af verði landsins, Ef hinar árlegu afborganir eru eigi greiddar í gjalddaga falla á rentur er nema sex prósent.

Uppdrætti og allar upplýsingar gefur

**F. T. GRIFFIN,** LANDCOMMISSIONER,

WINNIPEG MAN.

# Innihald Almanaksins 1904.

---